ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan



MÁLGAGN KOMMÚNISTASAMTAKANNA MARXISTA-LENÍNISTA 2.tbl.4.árg. 1975

Verð kr.50

## Offramleiðslukreppan orsakast af skipulagsleysi auðvaldsframleiðslunnar

# AFLEIÐINGUNUM VELT YFIR Á VERKALÝÐINN

Það er orðið langt síðan að Stéttabaráttan benti á nálægð efnahagskreppunnar, sem nú er að dynja yfir auðvaldsríkin, þar á meðal Ísland. En það var hlegið. Hrokafullir Alþýðubandalagsmenn töluðu um kreppukomma, og að kreppan hefði dáið út fyrir fullt og allt 1930. Þessir menn hlægja ekki lengur. Dagblöð borgaraflokkanna eru barmafull af harmatölum kapitalistanna og andvörpum til verkalýðsstéttarinnar um að hafa sig hæga og lofa kaupinu að lækka í friði án þess að vera að rífa kjaft. Nú er það þjóðareiningin sem er ellefta boðorðið: Stöndum saman og verndum gróða auðvaldsins. Vegna kreppunnar er það enn brýnni "skylda allra góðra íslendinga að slá skjaldborg um fjöregg þjóðarinnar, frelsi einstaklingsins og lýðræðislega stjórnarhætti" (Guðm. Garðarsson í Morgunblaðinu).

Efnahagskerfið hér á landi lýtur sömu lögmálum og í öðrum löndum. Þegar kreppa er í USA og Evrópu, er það sama óhjákvæmilega uppi á teningnum hér. Mörg tákn kreppunnar eru þegar komin fram. Við skulum taka nokkur dæmi. Seinasta ár var ár verðbólgumets (yfir 50%). Þannig hækkaði t.d. vísitala byggingarkostnaðar um 59,2%. Halli á verslun við útlönd var 12,3 milljörðum meiri en 1973, og viðskiptakjör landsins versnuðu um 24,4% á einu ári. Gjaldeyrisstaða bankanna rýrnaði ennfremur 1974 um 7,2 milljarði króna.

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

Kreppan er hafin - engar kauphækkanir.

Þannig hljóðar áróðurinn í fjölmiðlum borgarastéttarinnar þessa dagana. Allt hjalið um velferðarríkið hverfur eins og dögg fyrir sólu, nú er það kreppan. Á sama hátt og velferðaráróðurinn er notaður til þess að hylja raunveruleikann um auðvaldsþjóðfélagið er þessi áróður ætlaður til þess að sannfæra verkalýðinn að honum beri að taka á sig afleiðinar kreppunnar og herða ólina.

**Kreppan er hafin**

**EKKI GRUNDVÖLLUR FYRIR ALMENNUM KJARABÓTUM**

## SUÐUR-JEMEN

# „gleymda" alþýðulýðveldið



"Í landi okkar er ekki mikið um stórfenglegar fallbyssur. En við höfum dálítið sem er mikið betra - vopnaða alþýðu." Það er Salem abu Bakr sem mælir þessi orð, stoltur og glaður. Hann er landamæravörður í Dhala, í bröttum fjöllum við landamæri Noður-Jemen. Hér eru bændurnir mjög meðvitaðir og herskáir og það var hér sem uppreisnirnar gegn Bretum byrjuðu. "Hér ganga allir vopnaðir til vinnu sinnar," segir Salem og bendir út á akrana þar sem konur og menn vinna hlið við hlið með byssur um öxl. "Þegar málaliðar óvinanna ráðast yfir fjöllin til að reyna að binda enda á tilveru alþýðulýðveldisins, þá mæta þeir fólki sem veit hvað það er að verja. Aldrei framar skulum við búa við kúgun. Þannig er það um allt land. Verkamenn, bændur, fiskimenn og námsmenn, allir eru þeir vopnaðir og tilbúnir til að verja hendur sínar. Við höfum alþýðuher líka. Hann er ekki eins og herir kúgaranna sem eru aðgerðarlausir og kosta stórfé, meðan þeir bíða eftir stríði einhvers staðar. Nei, hermenn okkar búa meðal bændanna og þeir hjálpa til við uppbyggingarstarfið. Þeir plægja nýja akra, byggja vegi og sjúkrahús. Þeir veita pólitíska fræðslu og þjálfa okkur í vopnaburði."

Í lok síðasta árs átti Alþýðulýðveldið Jemen sjö ára afmæli sjálfstæðis og frelsis undan oki bresku heimsvaldastefnunnar. Þessi ár hafa einkennst af harðri baráttu bæði á efnahagssviðinu og pólitíska sviðinu. Jemen var mjög í fréttum borgarablaðanna fyrir sjö árum meðan barist var í höfuðborginni Aden, og taugaæstir vestrænir fréttaritarar fylgdust náið með undanhaldi og ósigrum bresku hersveitanna. En eftir að alþýðulýðveldið var stofnað hefur ekki verið skrifaður einn stafkrókur í borgarablöðin um Alþýðulýðveldið Jemen. Skyldi orsökin vera sú, að þróunin þar beri þess vitni hvers alþýðan er megnug, ef hún hrindir af sér oki heimsvaldastefnunnar?

SJÁ GREIN Á BLS. 5

## Neskaupstaður

# Sósialismi

## Alþýðubandalagsins

Alþýðubandalagsmenn hafa verið mjög iðnir við að breiða út sögur um hversu stjórn þeirra á fyrirtækjunum í Neskaupstað sé góð, hvernig þau séu rekin í þágu hinna vinnandi stétta, og þess vegna séu kjör verkalýðsins mun betri þar en annarstaðar, það jaðri við að Neskaupstaður sé sósíalískt bæjarfélag. En eins og eftirfarandi grein sýnir, er raunveruleikinn allt annar, verkalýður á Neskaupsstað er undirseldur sama launavinnuþrældómnum og annarsstaðar á landinu, þó að "alþýðubandalagsauðvaldið" fari með stjórnina.

Kaup járniðnaðarmanna 10-20% lægra á Neskaupstað en annarsstaðar á landinu.

Eftir náttúruhamfarirnar á Neskaupstað voru ráðnir iðnaðarmenn til viðgerða frá öðrum stöðum á landinu. Þar á meðal voru járniðnaðarmenn ráðnir til starfa hjá Dráttarbrautinni h.f. til vinnu við lagfæringar á frystihúsinu o.fl. Járniðnaðarmenn sem athuguðu með vinnu hjá Dráttarbrautinni sögðu ráðningarstjóra að þeir myndu ekki ráða sig uppá minna kaup en þeir hefðu þegar, en flestir járniðnaðarmenn, t.a.m. í Rvík eru með 30-40% yfirborgun. Á ráðningarstjóranum skildist þeim, að kaup og kjör yrðu ekki lakari í Neskaupstað þó að kaup heimamanna við járniðnað væri 10-20% lægra. Með þessar upplýsingar í huga fóru 11 járnsmiðir frá Reykjavík, Akureyri og Húsavík til vinnu í Neskaupstað. Við fyrstu útborgun, Hálfum mánuði eftir að þeir hófu vinnu, sáu þeir að þau laun sem þeim voru reiknuð voru 20% lægri en þau laun sem þeir fóru frá. Þegar þeir sáu þetta gerðu þeir kröfu um að fágreidda umtalaða yfirborgun og auk þess kaupauka fyrir óhreinindi sem þeim bar að fá, 10% á dagvinnu. Kaupaukann fengu þeir leiðréttan, en þvert nei við að fá umtalaða yfirborgun. Rök alþýðubandalagsforstjórans fyrir að vilja ekki leiðrétta yfirborgunina voru, að þá myndu járniðnaðarmenn á Neskaupstað krefjast sömu launa og greidd eru annarsstaðar á landinu og slíkt fordæmi mætti ekki gefa.

Hverra flokkur er Alþýðubandalagið?

Eins og dæmið að ofan sýnir okkur, þá reka Alþýðubandalagsmenn fyrirtæki sitt, Síldarvinnsluna, sem ræður yfir 95% allra atvinnutækja á Neskaupstað (þ.á.m. Dráttarbrautinni h.f.) á samagrundvelli og önnur auðvaldsfyrirtæki, þ.e. með það markmið að græða sem mest. Gróði sá sem þeir sækjast eftir, stendur í öfugu hlutfalli við laun verkamannanna, með því að halda laununum sem lægstum fá þeir mestan gróðan. Allt tal Alþýðubandalagsmanna um að það sé verkalýður Neskaupstaðar sem eigi Síldarvinnsluna er ekki annað en blekkingaráróður. Þó bæjarfélagið sé stærsti hluthafinn, ráða alþýðubandalagsmenn yfir því og beita því í egin þágu. Ef verkamenn raunverulega ættu fyritækið, væri örugglega ekki þannig að launin væru þrekkuð niður til að fá sem mestan gróða.

Allir kannast við barlóminn um að Alþýðubandalagið hafi ekki getað komið "sósíalískum markmiðum" sínum í framkvæmd í tíð síðustu ríkisstjórnar sökum andstöðu samstjórnarflokkanna. En á Neskauðstað hefur AB haft full tækifæri til að sýna verkamönnum hvoru megin það stendur og á öllum punktum hefur það valið veg auðvaldsins. Alþýðubandalagið er borgaralegur flokkur. Raunverulegur flokkur verkalýðsstéttarinnar ver vígstöðu hennar á öllum punktum, tekur leið byltingarinnar fram yfir leið umbótanna, berst gegn auðvaldinu en sest ekki í stóla auðvaldsins. Raunverulegur verkalýðsflokkur byggir á virkni þeirra verkamanna sem í honum eru. Á öllum þessum punktum flaskar AB. Flokknum er stjórnað af bittlingasjúkum menntamönnum en verkamenn hafa lítil áhrif á starf hans eða stefnu. Markmið AB er ekki afnám auðvaldsþjóðfélagsins, heldur að safna svo mörgum atkvæðum að flokksforingjarnir geti komist í stjórn auðvaldsþjóðfélagsins. Alþýðubandalagið var í tíð "vinstri" stjórnarinnar leiðandi fyrir kjaraskerðingar á formi vísitölufals og annarra "viðreisnaraðferða".

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

## Efni:

## Leiðari

Leiðarinn er á ábyrgð miðstjórnar KSML

# 'A VERKALÝÐURINN AÐ TAKA 'A SIG AUKNAR BYRÐAR VEGNA ATVINNUVEGANNA EÐA EIGA ATVINNUVEGIRNIR AÐ ÞJÓNA VERKALÝÐNUM?

Kreppa á borð við þá, sem nú dýpkar með hverjum deginum, er ekki neitt nýtt fyrirbrigði í sögu auðvaldsskipulagsins. Allt tímabil kapitalismans hefur einkennst af stöðnun og kreppu að loknu hverju uppgangstímabili framleiðslunnar. Það uppgangstímabil sem nú er að ljúka hefur staðið allt frá lokum seinni uppskiptastyrjaldarinnar - styrjaldarinnar sem lagði stóran hluta af framleiðslutækjum kapitalismans í rúst og þeir uppgangstímar sem fylgdu stöfuðu m.a. af endurreisninni eftir stríðið. Endurreisnin ásamt öllum tækninýjungunum, gjörnýtingu markaða o.fl. er aðeins tímabundið ástand.

Orsakir kreppunnar liggja í eðli auðvaldsins sjálfs, hinni stjórnlausu framleiðslu, og er því óleysanleg svo lengi sem auðvaldsskipulagið varir. En þetta vilja borgaralegu hagspekingarnir ekki viðurkenna, enda væru þeir þar með að viðurkenna dauðadóm sögunnar yfir kapítalismanum, en þeir fá ekki hin háu laun sín fyrir það. Þvert á móti fá þeir laun sín fyrir að lofsyngja kapítalismann og benda á „leiðir til úrbóta". En þær leiðir eru ekki til í rauninni - það getur aðeins verið um að ræða tímabundnar aðgerðir sem geta framlengt sníkjulíf auðvaldsins um nokkurn tíma - tímabil sem hefur í för með sér skerptari móthverfur innan auðvaldsins milli auðvaldsins og verkalýðsstéttarinnar sem er fulltrúi hinnar samfélagslegu framleiðslu og kreppulauss þjóðskipulags.

AUÐVALDSÞJÓÐFÉLAGIÐ ER ÓLÆKNANDI.

Allt tal um að „það syrti aðeins í bili" miðar að því að fela þá staðreynd að auðvaldsþjóðfélagið er ólæknandi sjúklingur - og að allt tal um velferðarþjóðfélög kapítalismans er einnig þvaður, enda þótt sá sjónleikur hafi staðið stutt.

„Ekki skal æðrast þótt það syrti í bili" segja borgaralegu áróðursmiðlarnir sem undanfarin tuttugu ár hafa lofsungið „velferðarríki" auðvaldsins. En hver er sannleikurinn um „velferðarríkin"? Hann er, sá að þau hafa aldrei verið til - efnahagskerfi sem tekur kollsteypur sem leiða af sér milljónaatvinnuleysi og styrjaldir með vissu millibili er ekkert velferðarþjóðfélag. Goðsögnin um „velferðina" hefur aðeins lifað stuttan tíma milli þess sem framleiðslan stöðvast af völdum offramleiðslu og verkalýðnum er sparkað út á götuna í miljónatali - eða þá att fyrir fallbyssurnar til þess að „verja föðurlandið". Sú „velferð" sem fellst í svokölluðum almannatryggingum hefur í rauninni þann tilgang að fegra kapítalismann - fela þær hrukkur sem örbirgð og fátækt mynda á ásjónu arðránskerfisins.

EFNAHAGSÁSTANDIÐ Á ÍSLANDI.

Þrátt fyrir gífurlega aukningu á þjóðarframleiðslu á síðasta ári og þó sérstaklega 1973, en þá varð aukningin um 25 milljarðar, er nú svo komið að allir sjóðir eru á þrotum, gjaldeyririnn búinn og ekkert annað en atvinnuleysi og efnahagslegt hrun blasir við íslenska auðvaldsþjóðfélaginu. Hver getur nú ástæðan verið, að svo skyndilega hafi skipast veður í lofti frá því 1973 og '74, þegar verðlag steig stöðugt, en nú í upphafi ársins '75 blasir verðhrunið við og fylgja þess atvinnuleysið. Borgaralegir hagspekingar kenna um olíu"kreppu", þ.e.a.s. að olíuverðið stjórni eða hafi úrslitaþýðingu fyrir verðlagið í hinum kapítalíska heimi. Þessi kenning fær auðvitað ekki staðist þegar við skoðum hvað olían er lítill hluti af heimsframleiðslunni og t.d. hér á landi aðeins örlítið brot af heildarorkunotkuninni til verksmiðjuframleiðslu, því hér er það rafmagnið og jarðvarminn, sem hafa afgerandi þýðingu. Hér ætti því verðbólgan að vera með minnsta móti, en þessu er þveröfugt farið - hér er verðbólgan mest í Evrópu og nú er svo komið, að ódýrara er að nota olíu til húsahitunar heldur en rafmagn. Ástæðan fyrir þessu er, að kreppan er ekki vegna þess að olíuverðið sé of hátt, heldur eru orsakirnar þær, að auðvaldsheimurinn getur ekki leyst sín innri vandamál nema með stórfelldum samdrætti vegna innri baráttu kapítalistanna fyrir hámarksgróða.

Markmiðið með útfærslu landhelginnar í 50 mílur var sókn útgerðarauðvaldsins eftir hámarksgróða og það var líka markmiðið með því að keyptir voru 53 nýjir skuttogarar á þremur síðustu árum. Til að vernda þennan gróða eru aðgerðir ríkisins líka notaðar eins og t.d. afnám vísitölubóta á laun, sem rænir verkamann sem hefur 45 þús. kr. á mánuði og fær því jafnlaunabætur um hvorki meira né minna en 162.180kr. á ári, sem síðan er notað til að treysta einkaeignina á framleiðslutækjunum. Sá sem hefur 60 þús. kr. á mánuði tapar þó enn meiru, þar sem hann fær ekki jafnlaunabætur, eða 295.200 kr. á ári. Á þennan hátt er það verkalýðurinn sem verður látinn taka á sig byrðarnar af rotnandi kerfi kapítalismans og síðan atvinnuleysið, þegar ekki einu sinni kjaraskerðingar duga til að bjarga hagkerfi einkagróðans frá hruni.

Mörgum hefur fundist það einkennilegt hvað aðgerðir alþingis hafa verið einhliða árásir á kjör launavinnumannsins, en engan skyldi undra á því þegar grannt er skoðað. Þó að Geir Hallgrímsson og Sverrir Hermannsson eða aðrir þingmenn hafi há laun, um 260 þús. kr. á mánuði, þá er þeim þó margfalt kærara að milljónagróðinn af fyrirtækjunum, sem þeir eiga, verði ekki skertur með launahækkunum til þeirra sem vinna hjá þeim. Til þess að vernda sinn eigin gróða og þeirra sem styðja þá dyggast, setja þeir lög um afnám allra launahækkana um leið og ákveðið er að verðlauna kapítalismann með auknum styrkjum og lánum. Þannig er borgaralega þingið ekkert annað en hjúpur yfir alræði borgarastéttarinnar, sem það notar til að fela þá staðreynd, að ákvarðanirnar eru fyrst og fremst teknar í fundarherbergjum fyrirtækjanna, en alþingi síðan látið samþykkja þær til að það líti út fyrir að almenningur hafi nú átt einhverja hlutdeild í hvernig er stjórnað.

Þess vegna getur verkalýðsstéttin ekki gert sér neinar vonir um að leyst verði úr efnahagskreppunni á neins annars kostnað en launavinnumannsins til að "bjarga" einkaeign kapítalíska hagkerfisins, sem nú hefur siglt í strand.

Nú heimta kapítalistarnir samábyrgð "allrar" þjóðarinnar á þessu erfiðleikatímabili, nú verður þjóðin að standa saman og bjarga því sem bjargað verður. En hvað er það sem á að sameinast um? Af hverju skyldi vera svona mikilvægt að standa saman einmitt núna? Af hverju er aldrei talað um samstöðu þegar vel gengur og gróðinn er mikill? Af hverju er þá ekki talað um, að gróðanum skuli skipt og að hver fái sem mest - á sama hátt og nú er talað um að allir verði að taka á sig auknar byrðar?

Það sem nú skal sameinast um er, að áliti kapítalistanna, að þeir missi ekki fyrirtæki sín, sem auðmennirnir hafa "eignast" með arðráni á verkalýðnum. Og nú finnst auðmönnunum það ekki nóg, sem verkalýðurinn hefur skapað handa þeim ríku með vinnu sinni; þess vegna skrækir öll íhaldspressan um að nú verði að hverða sultarólina. Gróði auðmannanna er sem sagt ekki n ægilega mikill þessa stundina og þeir sem verða látnir borga hallann eru auðvitað þeir, sem engin fyrirtæki eiga - verkamennirnir. Ástæðurnar fyrir þessu eru að finna í grundvelli auðvaldsskipulagsins, sem byggist á auðsöfnun fárra, sem allur fjöldinn skapar með vinnu sinni. Þess vegna gengur allt kerfið út á það að viðhalda einkaeigninni á kostnað hagsmuna fjöldans.

HVERNIG BÚUMST VIÐ TIL VARNAR?

Eina færa leiðin til að berjast gegn þeim auknu byrðum, sem einkaeign kapítalismans leggur á herðar verkalýðsins, er því að hann skipuleggi sig með það að markmiði að steypa kapítalismanum og byggja upp sósíalismann, þar sem ekki er spurt um gróða einstaklingsins heldur þarfir fjöldans. Þetta verður að vera markmiðið með baráttu okkar, ef árangur á að nást í varnarbaráttu gegn auðvaldinu. Allur tvískinnungur verður aðeins til að styrkja auðvaldið en veikja baráttu verkalýðsins. Það er því óhjákvæmilegt að við leggjum megináherslu á að dýpka pólitísku þekkinguna sem mest og vinna sósíalismanum sem traustast fylgi til að undirbúa afnám kapítalismans og valdatöku verkalýðsins.

En þrátt fyrir þessi meginverkefni, hljótum við á þessum krepputímum að verða að verja kjör okkar og koma í veg fyrir, að kapítalistarnir komi á gífurlegum kjaraskerðingum og atvinnuleysi. Kröfur okkar verða því nú að vera, að þeir ríku verði skattaðir, að þeir verði látnir taka á sig hallann af sínum eigin fyrirtækjum og að atvinna verði tryggð. Þetta eru þær sjálfsögðu kröfur, sem verkalýðurinn verður að gera til að koma í veg fyrir að hann verði settur á vonarvöl örbyrgðar og atvinnuleysis. Engum öðrum en verkalýðnum er fært að fylgja fram þessum kröfum, undir pólitískri handleiðslu marxismans-lenínismans, með skipulagi sem tekur til allrar stéttarinnar. Á hverjum vinnustað, í hverju verkalýðsfélagi og yfirleitt í öllum samtökum verkalýðsins verður að hvetja verkalýðinn til baráttu og þar verður að fara fram barátta gegn öllum tilhneigingum til undansláttar. Það verður að fara fram barátta gegn pólitík borgaralegs flokks á borð við Alþýðubandalagið og það verður að brjóta á bak aftur uppkeypta skrílinn í verkalýðsforystunni. Því það eru einmitt þessir aðilar sem eru hættulegasta vopn auðvaldsins innan raða verkalýðsins; raunveruleg fimmta herdeild, sem notar hvert tækifæri til að sá sundrungu og leysa upp alla sjálfstæða skipulagningu verkalýðsins, sem vegur að rótum auðvaldsins. Samstöðu með þessum mönnum getur verkalýðurinn aldrei átt. Þess vegna er mikilvægast að yfirskrift baráttunnar verði: Afhjúpum svikarana innan verkalýðshreyfingarinnar og sækjum markvisst fram til hinnar sósíalísku byltingar undir leiðsögn kommúnísks flokks.

Flokkurinn verður að leiða alla baráttu verkalýðsins, sérstaklega hina pólitísku baráttu. Þess vegna er það svo mikilvægt við núverandi ástand, að nám og rannsóknarstarf flokksins sé einkennandi fyrir alla starfsemi hans - á vinnustöðunum, í sellum flokksins, verði nám í marxismanum-lenínismanum, fræðikenningu verkalýðsins, sá grundvöllur sem baráttunni stýrir. Því að án réttrar skilgreiningar á þjóðfélaginu, mótun réttrar bardagaaðferðar getur ekki orðið um árangursríka baráttu að ræða. Hvorki nú, fyrir brýnustu lífsnauðsynjum, né þegar meta skal hverjir séu vinir og hverjir óvinir í sjálfri baráttunni gegn arðránskerfi kapítalismans.

9/2

1. MAÍ UNDIRBÚNINGURINN HAFINN

Í ráði er að stofna lúðrasveit KSML sem fara á fyrir göngunni 1. maí. Þegar er kominn álitlegur kjarni, en nokkra lúðra vantar enn. Þeir stuðningsmenn kommúnismans sem áhuga hafa á að leggja lúðrasveit KSML lið eru beðnir að hringja í síma 82806 sem fyrst.

## UMRÆÐUHORNIÐ

# UPPGJÖRIÐ VIÐ „VINSTRI" EINANGRUNARSTEFNUNA

Uppgjörinu við "vinstri" einangrunarstefnuna innan KSML er ekki lokið. Þótt deilurnar sem leiddu til þess að lítil klíka klauf sig frá samtökunum hafi staðið um afstöðuna til verkalýðsfélaganna og ríkisvaldsins, þýðir það ekki að það hafi verið eina málið sem "vinstri" einangrunarstefnan kom fram í. Hér er ætlunin að taka fyrir eitt mál - afstöðuna til stuðningsstarfsins við baráttuna í Indókína. Þetta mál tengist fleiri málum en hér verður látið nægja að fjalla um það mál eitt.

Hver hefur þá verið afstaða KSML? Í stórum dráttum var hún sú að ekki væri hægt að vinna raunverulegt stuðningsstarf fyrir baráttu alþýðunnar í Indókína nema með byltingu í eigin landi. Til þess að "rökstyðja" þessa afstöðu var sett fram mjög svo einföld túlkun á alþjóðahyggju öreiganna. Þvertekið var fyrir að það gæti verið stuðningur við baráttuna gegn USA-heimsveldinu að starfa á sem breiðustum grundvelli til að fá almenningsálitið til að fordæma árásarstríð USA í Indókína - jafnvel þótt víetnamar sjálfir legðu fram þann grundvöll fyrir stuðningsstarfið. Þessi breiðfylkingarbarátta var því talin andstæð alþjóðahyggju öreiganna. Skýrast kom þessi afstaða fram í aukablaði Stéttabaráttunnar um Víetnam í janúar 1973. Í því blaði er hin ranga afstaða til málsins allsráðandi - í ákafanum að "standa á grundvelli alþjóðahyggjunnar" er ráðist á þá samfylkingu sem Víetnamnefndin kom til leiðar á þeim grundvelli sem víetnamar lögðu sjálfir upp samkvæmt réttum skilningi á alþjóðahyggjunni. Í málflutningi KSML er lögð höfuðáhersla á að "afhjúpa smáborgaralega afstöðu Víetnamnefndarinnar" og KSML tóku að sér að leika hlutverk sundrungarmannanna innan samstöðuhreyfingarinnar fyrir Víetnam. Því er lýst yfir að "Víetnamhreyfing sem ekki starfar á grundvelli alþjóðahyggju öreiganna (þ.e. starfi fyrir byltinguna í eigin landi) er borgurunum einkar kærkomin" o.s.frv. og þess vegna er hún andbyltingarsinnuð.

### Alþjóðahyggjan

Hin rétta afstaða til alþjóðahyggjunnar kemur fram í orðum Ho Sjí Minh er hann segir: "það er með því að vita, hvernig á að tengja byltingarbaráttuna í landinu við hina alþjóðlegu byltingarsinnuðu verkalýðshreyfingu (sem nær einnig yfir þá baráttu, sem verkalýðsstéttin og vinnandi alþýða heyr í þeim heimsvaldalöndum, sem ráðast á okkar land) og frelsisbaráttu kúguðu þjóðanna, sem flokkur okkar hefur unnið erlenda bandamenn fyrir málstað víetnömsku byltingarinnar."

Það er einmitt "með því að vita" hvernig tengja ber byltingarbaráttuna á Íslandi við alþjóðlega byltingarbaráttu verkalýðsins og kúguðu þjóðanna, sem okkur tekst að starfa í rauninni á grundvelli alþjóðahyggjunnar. Þótt okkur sé vel ljóst að stuðningur ýmissa afla við baráttuna í kúguðu löndunum sé aðeins tímabundin og ekki byggður á byltingarsinnaðri afstöðu gagnvart auðvaldinu, má það ekki leiða til þess að við afneitum þeim tímabundna stuðningi sem þessi öfl veita.

Auðvitað er það svo að það er stuðningur byltingarafla hvers lands sem er traustastur og jafnframt eru þau ósérhlífnasti stuðningsaðilinn - en að takmarka allt stuðningsstarf við alþýðu kúguðu landanna við byltingarstarf jafngildir því að neita möguleikanum á að safna víðtækri andstöðu gegn glæpaverkum heimsvaldaríkjanna og gera þeim því leikinn auðveldari, er einnig frávik frá aðferðum fjöldabaráttunnar sem hefur ætíð verið aðalsmerki kommúnískra afla. Þetta er sígilt dæmi um einangrunarstefnu.

Byltingarbaráttan í eigin landi fer ekki eftir neinum beinum brautum. Það er einmitt eitt af táknum "vinstri" einangrunarstefnunnar að sjá hlutina í ljósi hins "byltingarsinnaða hreinleika," og afneita málamiðlunum og tímabundnu bandalagi við ýmsa hópa sem hægt er að virkja við viss skilyrði fyrir ákveðið málefni.

### Víetnamhreyfingin á Íslandi

Víetnamhreyfingin á Íslandi hefur aldrei verið öflug baráttufylking. Margar tilraunir hafa verið gerðar til að skipuleggja starf en yfirleitt hefur allt starf verið í molum og bundið við fámennan hóp. Orsakir þessa eru m.a. þær, að hreyfinguna hefur skort markvissa og starfsglaða forystu - og meginhluti starfsins hefur farið fram meðal menntafólks. Afstaða KSML til Víetnamhreyfingarinnar (sem er þó tæplega "hreyfing") verður að skoða í ljósi þessa, því að "fyrir marxistum-lenínistum liggur hið mikilvæga verkefni að veita framfarasinnuðum hreyfingum ungs fólks pólitískan og skipulegan grundvöll, að leiða baráttuna..." (Zeri i Popullit, ág. '74).

Til þess að hreyfingar eins og Víetnamhreyfingin geti haldið rétta leið verðum við að starfa innan þeirra - og vinna hreyfingarnar til fylgis við rétta stefnu. Það er tilgangslaust að standa fyrir utan og gagnrýna ranga stefnu og starfsleysi. Við getum ekki heimtað forystuna í okkar hendur, það er aðeins með ósérhlífnu starfi sem við getum náð að veita hreyfingunum forystu.

-/hh



FUNDIR VERÐANDI.

Að gefnu tilefni skal þess getið, að fundir þeir, sem Verðandi, félag róttækra stúdenta í Háskólanum, gengst fyrir og getið var um í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar, færast allir aftur um eina viku, sökum þess að fulltrúi Alþýðubandalagsins gat ekki mætt á tilsettum tíma. Fundirnar verða því á þeim dögum sem hér segir:

Fimmtudaginn 13. febrúar kl. 20,30 mun fulltrúi Alþýðubandalagsins skýra út sjónarmið flokksins.

Sunnudaginn 16. febrúar kl. 14,00 mun fulltrúi KSML skýra afstöðu samtakanna.

Fimmtudaginn 20. febrúar kl. 20,30 mætir svo fulltrúi Fylkingarinnar og flytur erindi.

Sunnudaginn 23. febrúar kl. 14,00 verður svo sameiginlegur umræðufundur allra samtakanna. Þar gefst mönnum kostur á að setja fram fyrirspurnir til fulltrúanna. Fundirnir verða í Félagsstofnun stúdenta við Hringbraut.

## Hafið samband við KSML

Akureyri: Fulltrúi KSML er Ragnar Baldursson, Stórholti 1.

Eskifjörður: Umboðsmaður er Emil Bóason, Hátúni, sími 6138.

Hafnarfjörður: Fulltrúi KSML er Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.

Hellissandur: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Sigfús Almarsson, Skólabraut 10.

Húsavík: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Þórarinn Ólafsson, Uppsalavegi 21.

Ísafjörður: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Agnar Hauksson, Tangagötu 20, sími 3651.

Ólafsvík: Stuðningsdeild KSML, Matthías Sæmundsson, Urðarteig 21.

Neskaupstaður: Stuðningsdeild KSML, Magnús Sæmundsson, Urðarteig 21.

Reykjavík: KSML, Skólastræti 3 eða pósthólf 1357, sími 27 800.

Siglufjörður: Söluturninn, Aðalgötu, er með umboðssölu fyrir Stéttabaráttuna og Rauða fánann.

Stykkishólmur: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Ólafur Þ. Jónsson, Ás.

Suðurnes: Stuðningsdeild KSML, Einar Jónsson, Sólvallagötu 40c, Keflavík.

Þorlákshöfn: Fulltrúi KSML er Halldór Grönvold, Oddabraut 7.


ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT! LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!
Stéttabaráttan

STÉTTABARÁTTAN 2. tbl. 4. árg.
14. febrúar 1975.
Útg. Kommúnistasamtökin m-l
Pósthólf 1357 Reykjavík
Sími: 27 800
Ritstj. og ábm.: Hjálmtýr Heiðdal

# Stuðningsdeild KSML SNÆFELLSNESI

Það þarf ekki að orðlengja mikilvægi kommúnísks starfs úti á landi fyrir Kommúnistasamtökin. Ekki er hægt að byggja flokk nema með stuðningi byltingarsinnaðra verkamanna hvaðanæva að af landinu. Þróunin verður að vera sú, að upp rísi hópar byltingarmanna úti á landsbyggðinni, sem síðar verði grundvöllurinn fyrir stofnun flokksdeilda á viðkomandi stöðum.

Það er greinilegt tákn framvíss vaxtar KSML, að starfið úti á landi verður stöðugt öflugra. Starfið í Neskaupsstað og Keflavík bera því vitni. Nú í vetur var einnig stofnuð stuðningsdeild samtakanna á Snæfellsnesi, sem aðsetur hefur á Hellissandi og í Ólafsvík.

Deildin hefur hafið starf. Stundað námsstarf í marxismanum-lenínismanum og rekið áróður fyrir samtökin út á við.

Laugardaginn 20. janúar hélt hópurinn almennan kynningar- og stjórnmálafund í félagsheimilinu Röst á Hellissandi. Frummælendur KSML voru Sigfús Almarsson verkamaður og Finnur Guðsteinsson kennari frá Hellissandi og Matthías Sæmundsson kennari frá Ólafsvík. Alls sóttu fundinn um 50 manns, þrátt fyrir að mikil atvinna væri í þorpinu þennan sama dag. Þátttaka í umræðum var góð. Hiti var mikill í mönnum og hart barist á báða bóga, en í heild var fundurinn sigur fyrir málstað kommúnista.

Pólitískt gjaldþrot Alþýðubandalagsins varð sérstaklega bert á þessum fundi. Fulltrúi þess, Skúli Alexandersson, varaþingmaður og smáútgerðarmaður, afhjúpaði á aumkunaverðan hátt pólitískt afturhald bandalagsins og falsanir þess á efnahagsástandinu. Fullyrðingar hans gengu allar út á það eitt, að sósíalísk bylting yrði aldrei framkvæmanleg, og að yfirvofandi kreppa væri aðeins tilbúningur íhalds og kommúnista. Slík er orðin niðurlæging þeirra manna sem kalla flokk sinn sósíalíska verkalýðsflokk.

Staða okkar kommúnista hér á Nesinu er sterkari eftir þennan fund, og verður hann hvatning til enn öflugra starfs í framtíðinni. Þannig hyggst stuðningsdeildin gangast fyrir sams konar fundi í Ólafsvík seinna í vetur.

Baráttukveðjur frá Snæfellsnesi.

Stuðningsdeild KSML.

# RÁÐSTEFNA KVENNA

26. janúar s.l. var haldin í Lindarbæ ráðstefna um kjör láglaunakvenna en þeir sem stóðu að henni voru A.S.B., Iðja, Rauðsokkahreyfingin, S.F.R. og Sókn. Ráðstefnuna sóttu rúmlega hundrað manns og fyrst og fremst konur. Þó að því beri að fagna, að tilraun sé gerð til að skipuleggja konur til baráttu fyrir hagsmunum sínum og gegn því órétti sem þær búa við í auðvaldsskipulaginu, voru þó ýmsir annmarkar á ráðstefnunni í Lindarbæ.

## Andikynskiptingar svífur yfir vötnum.

Í málflutningi flestra ræðumanna bar fremur lítið á stéttarlegri afstöðu, en þeim mun meira á kvenréttindaafstöðu. Maður skyldi ætla, að láglaunakonur legðu áherslu á sameiginlega baráttu með öðrum láglaunahópum, þ.e. öðrum hlutum verkalýðsins, en svo reyndist þó ekki. Í staðinn var meira fjallað um samstöðu kvenna almennt, hvort sem þær tilheyrðu borgarastéttinni eða verkalýðsstéttinni, gegn karlmönnum almennt, og gilti þá engu hvort um auðherra væri að ræða eða verkamenn. Þetta er að snúa hlutunum ranglega, því kúgun konunnar og réttindaleysi á sér ekki fyrst og fremst rætur í tilvist karlmannsins, á sama hátt og karlmenn mynda enga sérstaka stétt í heildina tekið. Þvert á móti er allt þjóðfélagið stéttskipt og bæði kynin tilheyra öllum stéttum. Ræturnar að kúgun konunnar er að finna í einkaeigninni á framleiðslutækjunum og forsendurnar fyrir frelsun hennar liggja því í afnámi séreignarréttarins - eða m.ö.o. afnámi auðvaldsskipulagsins.

Á ráðstefnunni var flutt tillaga um allsherjarverkfall kvenna, en samkvæmt anda kynferðisbaráttunnar, skyldi beina því gegn karlmanninum í heild, en ekki gegn auðvaldinu. Í stað þess að sameina verkamanninn og verkakonuna í baráttu fyrir auknum réttindum konunnar og gera þannig baráttuna víðtækari og efla samstöðu verkalýðsins, miðaði þessi tillaga raunverulega að því að etja verkakonum og verkamönnum saman. Slíkt verkfall yrði þannig engum til góðs, nema atvinnurekendum, sem myndu gleðjast yfir sundrungu verkalýðsins. Hið rétta er auðvitað að skapa sameiningu verkalýðshreyfingarinnar, hvort sem um er að ræða konur eða karla, og beita þessari sameinginu ekki aðeins til að bæta kjör og stöðu konunnar í íslenska auðvaldsþjóðfélaginu, heldur og að undirbúa afnám séreignaréttarins, sem veldur kúgun og



arðráni, jafnt á verkakonum sem verkakörlum. Sameignarskipulagið og sósíalisminn verða ekki byggð af öðru kyninu eða með kúgun á öðru kyninu, heldur fyrir baráttu allrar verkalýðsstéttarinnar og þar gegnir konan vissulega þýðingarmiklu hlutverki, því hún er nær helmingur stéttarinnar.

Þrátt fyrir þessar grundvallarvillur ber okkur að fagna þeirri viðleitni sem ráðstefnan í Lindarbæ var, því að verkefni kommúnistanna er ekki að hæða verkalýðinn eða setja sig yfir hann vegna þess að hann fari rangar leiðir í baráttunni, heldur að uppfræða hann um réttar leiðir og leiðrétta rangar hugmyndir hans um starfsaðferðir.

MÓTMÆLASTAÐA VÍETNAMNEFNDARINNAR

# VIRÐIÐ PARÍSAR SAMKOMULAGIÐ

27. janúar s.l. voru liðin tvö ár frá undirritun Parísarsáttmálans um frið í Víetnam. Af því tilefni efndi Víetnamnefndin á Íslandi til mótmælastöðu fyrir utan bandaríska sendiráðið í Rvík. Tæplega tvö hundruð manns mættu þar til að lýsa stuðningi sínum við að Parísarsamkomulagið sé virt. En eins og kunnugt er af fréttum hafa bandarísku heimsvaldasinnarnir stutt við bakið á Thieu-klíkunni í Saigon. Sá stuðningur heldur lífinu í þessari klíku sem neitar að virða Parísarsamkomulagið en gerir síendurteknar árásir á frelsuðu svæðin í Suður-Víetnam. Í yfirlýsingu Víetnamnefndarinnar í tilefni dagsins segir m.a.: "Því er það forsenda friðar, að Bandaríkin hætti að blanda sér í innir málefni Víetnam og virði Parísarsamkomulagið. Því er það forsenda friðar, að Thieu-stjórnin fari frá völdum, og við taki stjórn, sem er reiðubúin að virða Parísarsamkomulagið. Því ber okkur að styðja yfirlýsingu **Bráðabirgðabyltingarstjórnarinnar** (í S-Víetnam) frá 8. október 1974."

Kröfur Víetnamnefndarinnar voru: Að ríkisstjórnin slíti öllu sambandi við Saigonstjórnina og viðurkenni Bráðabirgðabyltingarstjórnina (BBS) sem hinn sanna fulltrúa alþýðu S-Víetnam. Einnig var þess krafist að íslenska ríkisstjórnin lýsi yfir stuðningi við yfirlýsingu BBS frá 8. okt. 1974, þar sem sýnt er fram á brot bandaríkjamanna á Parísarsamkomulaginu.

KSML lýstu yfir stuðningi við aðgerðir Víetnamnefndarinnar og tóku þátt í þeim. Þessi þátttaka KSML er liður í uppgjöri við einangrunarstefnuna sem fer fram í starfi samtakanna. Það er skoðun KSML að það beri að efla og styrkja starf Víetnamnefndarinnar á Íslandi - því að öflugt starf hennar getur verið mikilvægur þáttur í baráttunni gegn stríðsundibúningi stórveldanna og fyrir heimsfriði.

-/hh



# VERKALÝÐSFORYSTAN SAMDI VIÐ DDRS

# HVAÐ ER DDRS?

Flestir muna eftir því að nýlega gerðu Verkamannasamband Íslands, Verkakvennafélagið Framsókn og Starfsstúlknafélagið Sókn samning við danskt hreingerningafyrirtæki, sem hyggst hefja starfsemi hérlendis. En það eru færri sem vita hvaða fyrirtæki þetta er og hvað það er sem einkennir starfsemi þess.

DDRS er skammstöfun fyrir Det danske Rengöringsselskap (Danska hreingerningarfélagið). Fyrirtækið er hluti af stórum einokunarhring, ISS (International Service System), sem er einnig danskur með um 14.000 starfsmenn í Danmörku og um 24.000 erlendis. Heildarvelta hringsins er áætluð um 1,5 milljarður d.kr. 1975. Auk DDRS á ISS fleiri dótturfyrirtæki, t.d. Securitas, sem tekur að sér að vakta (með vopnuðum vörðum) eignir einstakra auðvaldsherra, menningarstofnanir USA á Norðurlöndum o.fl. í þeim stíl. ISS er í tengslum við sænska fyrirtækið Elektrolux (eign Wallenbergs, ríkasta kapitalistans í Svíþjóð) og rekur þar hreingerningarfyrirtækið ASAB. ISS rekur ennfremur starfsemi í Noregi og í S-Ameríku.

Það sem einkennt hefur starfsemi ISS félaganna er gífurleg harka gagnvart verkafólkinu sem starfar hjá fyrirtækinu - arðránið er þrælskipulagt og umtalað hvernig fyrirtækið framkvæmir vinnuafkastamælingar til að herða vinnuhraðann.

En þessi fyrirlitning fyrirtækisins á verkafólkinu hefur leitt til verkfalla í Danmörku, Svíþjóð og Noregi. Frumorsakir verkfallanna hafa einmitt verið andstaða gegn síauknum vinnuhraða og tilraunum til launalækkana af hálfu ISS.

Í Danmörku tók DDRS yfir hreingerningar í bænum Gentofte eftir að bærinn hafði rekið 175 hreingerningarkonur. DDRS bauð þeim vinnu að nýju hjá sér - en fyrir 5 d.kr. minna á tímann! og einnig skyldi vinnuhraðinn aukinn. Í Horsens hugðist DDRS lækka kaupið úr d.kr. 24 á klst. í d.kr. 19.75. Hreingerningakonurnar fóru þá í verkfall, sem ekki var leyst þegar þetta er skrifað.

Í Svíþjóð hafa orðið mörg verkföll hreingerningakvenna. Þar er það ASAB sem hefur reynt að auka vinnuhraðann - sem dæmi um starfsaðferðir ISS-félaganna er skipulag ASAB í bænum Skövde til að gjörnýta vinnuaflið:

- Hreingerningarkonunum var fækkað um helming eftir að ASAB tók yfir.
- Áður fyrr hreinsaði hver verkakona 17 (hótel)herbergi á 8 klst. Nú eiga þær að hreinsa 26 herbergi á 6 1/2 klst!

Til þess að koma þessu skipulagi á hefur ASAB beitt hótunum og ofsóknum gegn hreingerningakonunum. Á tímabili var næstum því einn eftirlitsmaður með hverri verkakonu til þess að reka á eftir þeim.

Verkfall hreingerningakvenna í Svíþjóð var í mörgum bæjum - einnig fóru hreingerningakonur sums staðar í samúðarverkfall. Kapitalistarnir svöruðu með því að stefna baráttuglöðustu verkakonunum fyrir vinnudómsstól (samsvarandi Félagsdómi hérlendis) - en samstaða verkafólksins hefur fram að þessu verið mikil og ekki útséð um verkföllin þar.

Bæði í Danmörku og Svíþjóð hefur forystan í félögum hreingerningakvenna snúist á sveif með auðvaldinu og fyrrverandi formaður Kvindeligt Arbejderforbund í Danmörku lýsti því yfir að DDRS væri með allra bestu atvinnurekendum.

Þetta er sem sagt það fyrirtæki sem forysta Verkamannasambandsins ásamt forystu nokkurra verkakvennafélaga hér á Íslandi hafa samið við. Sá samningur er í anda DDRS og greinileg ætlun þess er að pína sem mesta vinnu út úr þeim hreingerningakonum sem kynnu að ráða sig í vinnu hjá þeim.

-/hh

# AKUREYRI

Kommúnistasamtökin marxistarnir-lenínistarnir hafa hafið starf á Akureyri að nýju. Sem kunnugt er kaus Akureyrardeild samtakanna að fylgja Gústa-klíkunni, þegar hún klauf samtökin. Af þeirri ástæðu lagðist starf KSML niður á Akureyri. Nú, aðeins sjö mánuðum eftir klofninginn er hafið starf á Akureyri. Sala á Stéttabaráttunni er byrjuð á ný og námsstarf er um það bil að fara af stað.

Við skorum á alla stuðningsmenn samtakanna á Akureyri að hafa nú þegar samband við KSML á Akureyri og koma til starfa. Hafið samband við Ragnar Baldursson, Stórholti 1.

# FUNDUR Í HVERAGERÐI

25. janúar s.l. héldu Kommúnistasamtökin almennan fund í Hveragerði. Fundurinn var ætlaður sem almenn kynning á starfi og stefnu samtakanna. Tveir félagar fluttu ræður við þetta tækifæri og fjölluðu þær annars vegar um skipulag KSML og hvernig þau leitast við að byggja kommúnískan flokk og hins vegar hvernig pólitík KSML hefur þróast í einstökum mikilvægum málum á grundvelli marxismans-lenínismans.

Eftir framsöguræðurnar urðu all fjörugar umræður og bar þar margt á góma, en einkum var rætt um afstöðu okkar kommúnista til landhelgismálsins. 20-30 manns sóttu fundinn og var yngra fólk í áberandi meirihluta.

Um skipulagt starf á vegum KSML hefur ekki verið að ræða í Hveragerði, en þó hefur Stéttabaráttan verið seld þar í hús að undanförnu og gengið all vel.

# Rauður vettvangur FRÁ LESENDUM.

Reykjavík 2/2 1975

Mig langar til að skrifa ykkur þetta bréf í þeirri von að þið birtið það. Ég ætla að segja ykkur frá reynslu minni af húsnæðisokri auðborgaranna.

Ég er 23 ára gamall verkamaður, með 52 þúsund króna laun á mánuði, giftur og með 1 barn. Sem stendur er ég húsnæðislaus, en hef verið að leita mér að íbúð. Ég setti auglýsingu í Vísir og auglýsti eftir 2-3 herbergja íbúð. Ég fékk 3 tilboð, og þau lýsa betur en annað svínaríiun sem viðgengst í húsnæðismálum í Reykjavík.

Fyrsta tilboðið var frá konu í Árbænum. Hún bauð mér þriggja herbergja íbúð til leigu á 25 þúsund krónur á mánuði, og sagðist ekki leigja hana nema hún fengi minnst hálft ár borgað fyrirfram. Ég hef ekki getað lagt það mikið til hliðar að ég geti snarað út 150 þúsund krónum (þriggja mánaða launum mínum), þar sem ég þarf að fæða og klæða þriggja manna fjölskyldu. Konan lét þess getið að ég mætti ekki gefa upp meira en fimm þúsund króna leigu á mánuði til skatts.

Næsta tilboð sem ég fékk var frá fasteignasala í bænum. Hann hafði á sínum snærum kjallaraíbúð í gamla bænum. Hún hafði verið dæmd óíbúðarhæf sökum raka og vegna þess hversu mikið niðurgrafin hún var, auk þess var ekki bað í henni, en manninum fannst ekki of mikið að krefjast 25 þúsund króna leigu. Ég sagði honum að fara til helvítis.

Síðasta tilboðið sem ég fékk var frá manni í Hlíðunum, sem hafði til leigu þriggja herbergja íbúð. Eitt herbergið í íbúðinni var forstofuherbergi, og þar ætlaði maðurinn sjálfur að búa. Hann vildi fá í leigu 20 þúsund krónur á mánuði, þrjá mánuði borgaða fyrirfram, en auk þess vildi hann fá kvöldmat sem borgun. Að hafa standandi kvöldmat kostar í dag a.m.k. 10 þúsund krónur á mánuði, svo að ég treysti mér ekki til að taka þess íbúð heldur.

Þegar verkamenn í Reykjavík fara að leita sér að þaki yfir höfuðið rekast þeir alls staðar á svona lagað. Kapitalistarnir hafa stórgróða af húsaleiguokrinu og samhliða uppþíndu fasteignaverði, svo það er ekki á allra færi að kaupa sér íbúð, eru þeir búnir að byggja gróðakerfi sem þeir mjólka, og blóðpeningarnir eru skattfrjálsir. Maður má ekki gefa upp til skatts okurleiguna, enda er það svo að húsaleiga er ekki frádráttarbær til skatts.

Ég lýsi yfir samstöðu með KSML. Verkamenn - brjótum niður kúgun kapitalistanna.

EJ.




# ALBANÍA - ALRÆÐI ÖREIGANNA Í 30 ÁR

## 6. grein

"Æska okkar lands lítur framtíðina björtum augum; framtíðin er hennar, allar leiðir standa henni opnar... það er þess vegna sem hún er byltingarsinnuð og ótrauður baráttumaður í þágu sósíalismans."
(Enver Hoxha)

## „Nám - rannsóknir - starf"

# VÍGORÐ ALBANSKRAR ÆSKU

"Af öllum öflum þjóðfélagsins er unga fólkið virkast og gætt mestri lífsorku. Það er námfúsast og lausast við íhaldssemi í hugsun. Þetta á þó einkum við á söguskeiði sósíalismans." (Maó Tse-tung).

Í Albaníu hefur æska landsins ávallt gegnt þýðingarmiklu hlutverki í þágu sósíalismans og hinnar vinnandi alþýðu. Í þjóðfrelsisstríðinu 1941-45, þegar albanska þjóðin barðist hetjulegri baráttu gegn ítölskum og þýskum innrásarherjum, stóð unga fólkið í fylkingarbrjósti baráttunnar. Og eftir valdatöku alþýðunnar hefur æskan að jafnaði verið fórnfúsust við sósíalíska uppbyggingu landsins.

Stofnun Æskulýðssamtakanna - þjóðfrelsisbaráttan

Æskulýðssamtök Kommúnistaflokks Albaníu voru stofnuð 23. nóvember 1941 eða um tveim vikum eftir stofnun sjálfs flokksins. Fyrsti formaður samtakanna var kosinn Qemal Stafa, sem jafnframt átti sæti í miðstjórn Kommúnistaflokksins. Hans naut þó ekki lengi við í þessari ábyrgðarstöðu, því 5. maí 1942 féll hann fyrir byssukúlum ítölsku fasistanna eftir hetjulega vörn.

Æskulýðssamtökin, sem nutu leiðsagnar flokksins, voru byggð upp á sama hátt og hann, þ.e. á grundvelli selluskipulagsins. Eitt fyrsta verkefni æskulýðssamtakanna (og reyndar flokksins líka) var að nema stytta útgáfu af Sögu Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna (bolsévíkanna). Kommúnískar hugmyndir náðu á skömmum tíma að skjóta rótum meðal æskulýðsins og í fyrstu skæruliðasveitunum, sem komið var á laggirnar, var hvarvetna að finna baráttuglaða frelsisunnendur úr röðum yngri kynslóðarinnar. Fjöldastarf æskulýðssamtakanna bar skjótt gífurlegan árangur og sem dæmi um það tókst ungkommúnistunum að ná yfirhöndinni í íþrótta- og menningarfélögum, sem ítalska innrásarliðið hafði sett á stofn.

Í frelsisbaráttunni var unga fólkið í borgum og bæjum fyrst til að láta að sér kveða og var þar um að ræða jafnt skólafólk sem vinnandi æskulýð. Skólafólkið kom að mestu leyti frá smáborgarastéttinni og við hlið verkalýðsæskunnar barðist það undir leiðsögn Æskulýðssamtaka kommúnista. En meginhluti æskulýðsins kom frá bændaalþýðunni í sveitunum og voru ungir bændur tvímælalaust uppistaðan í Þjóðfrelsisher Albaníu.

"Nám - rannsóknir - starf"

Þegar Kommúnistaflokkur Albaníu breytti um nafn eftir sigurinn yfir innrásarliðum Ítala og Þjóðverja, var nafni æskulýðssamtakanna líka breytt og heitir nú Albanska æskulýðssamband vinnunnar. Vígorðið: "Nám - rannsóknir - starf" hefur einkennt allt starf æskulýðssambandsins við að styrkja hugmyndafræði flokksins og kenningar marxismans-lenínismans meðal unga fólksins. Öll barátta æskunnar hefur einkennst af því að tengja saman fræðikenninguna og starfið og má í því sambandi nefna baráttuna gegn trúarbrögðunum og afturhaldssömum siðareglum, baráttuna fyrir frelsun konunnar og baráttuna gegn rótgrónum erfðum lénsveldisins. Yngri kynslóðin öðlast þekkingu á þjóðfélaginu og pólitíkinni allt frá barnæsku og er skipulögð í ungherjahreyfingar og æskulýðssamtök. Eftir því sem hugmyndafræðilegur, pólitískur og menningarlegur þroski unglinganna eykst, þeim mun betur eru þeir undirbúnir að taka þátt í uppbyggingarstarfsemi sósíalismans á hinum ýmsu sviðum þjóðfélagsins.

Þátttaka unga fólksins í pólitísku og félagslegu starfi er ekki eingöngu háð innan ramma æskulýðssamtakanna né heldur snertir hún fyrst og fremst áhugamál unga fólksins. Í þessu sambandi getum við tekið sem dæmi hreyfinguna "fyrir siðferðilegri fullkomnun æskunnar í baráttunni gegn ítökum smáborgaralegra hugmynda." Þessi hreyfing hefur haft almenn áhrif, því hún hefur líka náð til eldri kynslóðarinnar, jafnt í borgum sem sveitum, sökum þess að hér er um að ræða baráttu gegn einstaklingshyggju sem er arfleifð gamla tímans í meðvitund fólksins.

Nám, vinna, líkamleg-hernaðarleg þjálfun

Einn þýðingarmesti starfsvettvangur Albanska æskulýðssambands vinnunnar er að veita æskulýðnum menntun á sviði lista og menningar. Umræður, sem haldnar eru á þessu sviði, þátttaka æskulýðsfjöldans í listrænu og menningarlegu starfi og sköpun og baráttan gegn erlendum áhrifum, sérstaklega borgaralegri og endurskoðunarsinnaðri list og menningu, hefur geysilega þýðingu fyrir menntun æskunnar á sviði fagurfræðinnar, vegna þess að hún byggir á kenningum marxismans-lenínismans um listir og menningu.

Æskan í Albaníu tekur virkan þátt í uppbyggingarstarfinu eins og áður hefur verið minnst á. Eitt merkilegasta framlag hennar í þágu þess hefur verið lagning járnbrautar, sem hefur geysilega þýðingu í því skyni að tengja saman dreifbýli og þéttbýli. Allt starf æskunnar við gerð þessarar járnbrautar er unnið í sjálfboðavinnu. Með æskunni vinna líka eldri verkamenn og verkfræðingar, sem aðstoða unga fólkið og hafa yfirumsjón með hinni tæknilegu hlið málsins. Æskulýðssambandið skipuleggur aftur á móti vinnu unga fólksins, en tugir þúsunda unglinga hafa safnast saman hvaðanæva að af landinu til að leggja þannig sitt af mörkum fyrir málstað sósíalismans.

Reynslan af baráttu albanskrar alþýðu hefur kennt henni, að siðferðilegt og pólitískt uppeldi æskunnar hefur ekkert gildi án líkamlegrar og hernaðarlegrar þjálfunar. Albanska æskulýðssamband vinnunnar hefur aldrei litið svo á, að þetta tvennt sé aðskilið, né heldur að hvort um sig sé takmark í sjálfu sér. Líkamleg þjálfun er ekki bara til þess að njóta hvíldar í menningarlegri starfsemi, eða eingöngu líkamsþjálfunarinnar vegna og safna þannig kröftum fyrir vinnuna. Líkamsþjálfunin er nátengd hernaðarþjálfuninni, sem gegnir fyrst og fremst því hlutverki að vera í þágu varnar landsins og sósíalsismans í Albaníu, sem sífellt er ógnað af heimsvaldasinnum úr austri og vestri.

Nám, vinna, líkamleg-hernaðarleg þjálfun. Þetta þrennt einkennir líf og starf albanskrar æsku. Unga kynslóðin öðlast byltingarsinnað uppeldi frá því hún sest á skólabekk og ekki aðeins að því er lýtur að fræðilegum efnum, heldur líka frá starfrænu sjónarmiði, m.ö.o. með því að taka beinan þátt í byltingunni. Marxisminn-lenínisminn er það hugmyndafræðilega afl, sem gagnsýrir alla þætti hins sósíalísk þjóðfélags og með þetta afl að vopni leitast albanskur æskulýður og öll alþýðan í landinu undir forystu flokks síns við að skapa hinn nýja mann framtíðarinnar.

(Að mestu stuðst við Albania Today 5/1972 -/SJÓ).



**Eitt þýðingarmesta starf ungs fólks í verkalýðsríkinu Albaníu í þágu sósíalískrar uppbyggingar landsins hefur verið sjálfboðavinna við lagningu járnbrautar, sem tengir saman dreifbýlið og þéttbýlið. Þessi mynd er tekin s.l. sumar af æskufólki við slík störf.**



**Nám í marxismanum-lenínismanum er grundvöllur allrar pólitískrar starfsemi. Hér eru nokkur albönsk ungmenni saman komin til að nema nýjasta eintakið af höfuðmálgagni flokksins, Zëri i popullit.**

# 4. þjóðþing Alþýðulýðveldisins Kína

Fjórða Þjóðþing Alþýðulýðveldisins Kína var formlega haldið dagana 13. - 17. janúar 1975. Verkefni þingsins voru þrjú. Endurskoðun stjórnarskrárinnar, skýrsla um starf ríkisstjórnarinnar, og kosningar og skipanir í æðstu embætti ríkisins.

2864 fulltrúar sátu 4. þjóðþingið, sem haldið var í Alþýðuhöllinni miklu í Peking. Eftir víðtæka lýðræðislega umræðu meðal allrar alþýðu landsins voru fulltrúar iðnverkamanna, bænda, annarrar vinnandi alþýðu, Frelsishers alþýðunnar, flokksins, byltingarsinnaðra menntamanna, þjóðernisminnihluta og kínverja búsettra erlendis valdir til þátttöku í þinginu. 72% fulltrúanna voru valdir af verkamönnum, bændum og hermönnum og rúmlega 22% fulltrúanna voru konur. Frá öllum 54 þjóðernisminnihlutum Kína voru fulltrúar nærstaddir og 12 fulltrúar frá Taiwan (Formósu). Samsetning þjóðþingsins sýnir vel sameiningu allrar alþýðu í Kína, undir forystu verkalýðsins og á grundvelli bandalags verkamanna og bænda.

Endurskoðun stjórnarskrárinnar

Cang Chun-chiao, aðstoðarforsætisráðherra flutti skýrslu um endurskoðun stjórnarskrárinnar, þar sagði hann m.a.: "Stjórnarskrárdrögin segja svo fyrir um, að "Alþýðulýðveldið Kína er sósíalískt ríki þar sem alræði öreiganna er ráðandi, undir forystu verkalýðsstéttarinnar og byggt á bandalagi verkamanna og bænda." Þau segja ennfremur svo fyrir um, að fulltrúar verkamanna, bænda og hermanna skuli mynda meirihluta þjóðþingsins á öllum stigum." "Þannig er stéttarlegt eðli ríkis okkar og staða sérhverrar stéttar í landi voru skýrt skilgreind. Marx og Lenín hafa kennt okkur, að "stéttabaráttan leiði óhjákvæmilega til alræðis öreiganna" og að "öreigaríkið er tæki fyrir öreigana til að kúga borgarana." Stjórnarskrárdrögin aðhyllast þessar grundvallarreglur." Chang Chun-chiao skýrir í ræðu sinni út verkefni alræðis öreiganna í Kína og að lýðræðislegt miðstjórnarvald sé undirstað þróunar ríkisins og að frumkvæði fjöldans verði að njóta fulls trausts flokksins og ráðamanna ríkisins.

Ennfremur getur Chang Chun-chiao þess í ræðu sinni, að "verkefnið að breyta eignarfyrirkomulagi á framleiðslutækjunum á sósíalískan hátt, sem Stjórnarskráin frá 1954 setti á dagskrá, sé í aðalatriðum leyst." Þá leggur hann mikla áherslu á þau ákvæði nýju stjórnarskrárinnar, að ríkisstofnanir og ríkisstarfsmenn verði að leggja mikla rækt við nám í fræðikenningu marxismans-lenínismans og hugsun Maós Tse-tungs og að öreigarnir verði að hafa algert forræði yfir borgarastéttinni á öllum sviðum yfirbyggingar þjóðfélagsins, í vísindum, menntun og menningu. Að endingu segir Chang Chun-chiao: "Í samræmi við kenningu Maós, grafið djúp göng, geymið kornforða alls staðar og sækist aldrei eftir yfirráðum, höfum við skráð í stjórnarskrána, að Kína verði aldrei risaveldi, til þess að sýna að land okkar sækist ekki eftir yfirráðum í dag og mun aldrei gera það. Verkalýðurinn getur aðeins öðlast frelsi með því að frelsa um leið allt mannkynið."

Skýrsla Chou En-lai um starf ríkisstjórnarinnar

Þrátt fyrir veikindaspár borgarapressunnar á Vesturlöndum, var Chou En-lai mættur til að flytja skýrslu miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína. Hann lagði áherslu á mikilvægi menningarbyltingarinnar í þróun Kína. Honum fórust svo orð um menningarbyltinguna, sem staðið hefur samfleytt í 9 ár, að sigur hennar hefði fest alræði öreiganna í sessi í Kína, örvað sósíalísku framleiðslu landsins og tryggt, að Kína muni standa við hlið kúgaðrar alþýðu og kúgaðra þjóða alls heimsins í baráttunni fyrir frelsi. "Menningarbyltingin," sagði Chou En-lai, "hefur skapað nýja reynslu í áframhaldi byltingarinnar undir alræði öreiganna." Chou En-lai staðfesti í ræðu sinni hin geysilegu grettistök, sem kínversk alþýða hefur lyft, á sviði framleiðslunnar. Á 10 árum, frá 1964 til 1974 hefur heildar þjóðarframleiðsla landsins aukist um 190%, framleiðsla á stáli jókst um 120%, á kolum 91%, á olíu 650%, á tilbúnum áburði 330% og á traktorum 520% á þessu tímabili. Á sviði alþjóðastjórnmála hefur Kína öðlast leiðandi hlutverk fyrir baráttu þriðja heimsins, tekið réttmætt sæti sitt í Sameinuðu-Þjóðunum og komið á stjórnmálasamskiptum við nærfellt 100 lönd.

Chou En-lai ræddi um stefnumörkun 10. þings Kommúnistaflokks Kína og sagði meðal annars: "Aðalverkefni okkar er að halda áfram að víkka, dýpka og viðhalda hreyfingunni til gagnrýni á Lin Píao og Konfúsíus. Baráttan milli stéttanna tveggja, öreiganna og borgaranna, milli hinna tveggja leiða, sósíalísku og kapitalísku, marxísku og endurskoðunarsinnuðu, er löng og erfið og verður á stundum algerlega afgerandi." Um stefnumótunina í uppbyggingu hinnar sósíalísku framleiðslu sagði hann m.a.: "Samkvæmt leiðbeiningum Maós formanns, var lagt til í skýrslu um starf ríkisstjórnarinnar til þriðja þjóðþingsins að okkur bæri að skoða þróun þjóðarframleiðslunnar sem tveggja þrepa miðað við upphaf 3. fimm ára áætlunarinnar: fyrsta stigið er að byggja upp sjálfstætt og tiltölulega altækt iðnaðar- og efnahagskerfi á 15 árum, þ.e. fyrir 1980; seinna þrepið er að ná altækri nútíma umbyltingu landbúnaðar, iðnaðar, þjóðvarna og tækni fyrir lok aldarinnar, þannig að þjóðhagkerfi okkar verði komið í fremstu röð í heiminum."

Þá ræddi Chou En-lai um 4. fimm ára áætlunina, sem örugglega verður leidd í höfn og meira en það á þessu ári. Þjóðþingið staðfesti þannig geysilega sigra kínversku alþýðunnar á vettvangi uppbyggingarstarfsins og sósíalísku framleiðslunnar, þrátt fyrir menningarbyltinguna, en trettamenn og stjórnmálamenn höfðu spáð upplausn og stöðnun í kínverskri framleiðslu, vegna stjórnmálalegra átaka í menningarbyltingunni. Chou En-lai sagði í þessu sambandi, að sigrar á sviði framleiðslunnar væru aðeins tákn um sigra öreigastéttarinnar yfir borgarastéttinni, marxismans yfir endurskoðunarstefnunni.

Þá ræddi Chou En-lai um alþjóðlega ástandið og þróun alþjóðastjórnmála á síðustu árum. Hann benti á óreiðuna og hrundið, sem ríkjandi er í hinum kapitalíska heimi og sagði að auðvaldsheimurinn stæði nú frammi fyrir alvarlegustu efnahagskreppu síðan seinni heimsstyrjöldinni lauk. "Lönd vilja sjálfstæði, þjóðir vilja frelsi, alþýðan vill byltingu - þetta er ómótstæðileg söguleg tilhneiging í dag. Hins vegar er keppnin um heimsyfirráð milli risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna, sífellt að færast í aukana." Hann ræddi um afleiðingarnar af þessari keppni um heimsyfirráð milli risaveldanna og sagði: "Ákköf keppni þeirra mun óhjákvæmilega leiða til heimsstyrjaldar einhvern tímann. Alþýða allra landa verður að vera því viðbúin. Afvopnun og friður eru sífellt til umræðu í öllum heiminum. Einmitt þetta sýnir að afvopnun er ekki til staðar, að ekki sé minnst á varanlegan frið í heiminum. Í dag eru skilyrði beggja, byltingar og styrjalda, í vexti. Hvort sem styrjöldin leiðir til byltingar eða bylting kemur í veg fyrir styrjöld, mun alþjóðlegt ástand þróast í hag alþýðunni og framtíð heimsins mun verða björt."

Chou En-lai veik að endurskoðunarklíu Brésnefs í ræðu sinni og benti á hættuna á innrás sósíalheimsvaldasinna. Hann hvatti kínverska alþýðu til að vera á varðbergi gegn yfirvofandi hættu af innrás Sovétherjanna. Hann lauk ræðu sinni með hvatningarorðum til fulltrúa þjóðþingsins og kínverskrar alþýðu með þessum orðum: "Undir leiðsögn byltingarsinnaðrar línu Maós formanns, skulum við sameinast til að vinna ennþá stærri sigra."

Íslenskur verkalýður verður að fara leiðir byltingarinnar

Við núverandi ástand, þegar rotnun og upplausn auðvaldsheimsins blasir alls staðar við augum, þegar efnahagskreppa og stríðsrekstur auðvaldsins leiðir skort, atvinnuleysi og hörmungar yfir verkalýð og vinnandi alþýðu heimsins er sigur kínversku byltingarinnar gleðiefni íslenskum verkalýð. Íslenskir kommúnistar fagna þeim mikla áfanga sem kínverska alþýðan hefur ná á 25 árum undir leiðsögn Kommúnistaflokks Kína og Maós Tse-tung. Eigi íslenskur verkalýður og íslensk alþýða að öðlast frelsi undan vinnuþrælkun, atvinnuleysi, óöryggi og rangsleitni sem íslenska auðvaldið hneppir hana í, verður hún að fara sömu leiðir og alþýða Kína - leiðir sósíalískrar byltingar og verkalýðsríkisins. Fjórða Þjóðþing Alþýðulýðveldisins Kína veitir íslenskum verkalýð staðfestingu á þeim sigrum, sem aðeins verða unnir undir leiðsögn marxismans-lenínismans.

-/kg

# SUÐUR-JEMEN „gleymda" alþýðulýðveldið

Þegar Bretar yfirgáfu Suður-Jemen árið 1967 skildu þeir við efnahag landsins í molum. Landið bjó við miðaldavenjur í landbúnaði og iðnaður var enginn, utan smávægilegur handiðnaður. Landið var í rústum eftir langt frelsisstríð gegn Bretum og flest mannvirki í landinu ónýt, þar með talin brýr, áveitur, hafnir og opinberar byggingar. Árið 1967 geisaði stríð milli tveggja lína innan frelsishreyfingarinnar NLF. Hægri armurinn hafði borgaralega þjóðernissinnaða stefnuskrá, sem gekk út á að styrkja borgarastétt landsins; í stórum dráttum að varðveita hina gömlu þjóðfélagsbyggingu, afvopna alþýðuna, en byggja þess í stað upp her á hefðbundin máta. Vinstri armur frelsishreyfingarinnar krafðist þess að fjöldinnyrði virkjaður í baráttunni fyrir betra þjóðfélagi, að útrýmt yrði erlendu fjármagni í efnahag landsins og að með þátttöku fjöldans yrði frelsisstríðið þróað á veg nýlýðræðis og í átt til sósíalisma. Þessar mótsetningar leiddu til stríðs milli borgarastéttarinnar og verkalýðs og bænda. Með vopnuðu alþýðustríði sigraði vinstri armurinn árið 1969.

Efnahagsmálin skipulögð.

Í nóvember 1969 voru allar erlendar eignir í landinu þjóðnýttar. Nýrri skipan var komið á jarðarmálin - ekki með seinvirkum aðferðum skriffinnskunnar, heldur á þann hátt, að bændurnir risu upp og ráku á brott með vopnavaldi þá óðalsherra, sem ekki voru þegar flúnir til Saudi-Arabíu og Norður-Jemen. Ríkisstjórnin útbjó uppkast af þriggja ára áætlun um endurreisn efnahags landsins, og áætlunin var rædd af alþýðunni sem gerði breytingartilögur. Áætlunin, sem gekk í gildi 1/4 1971 og gilti til 1/4 1974, hafði marga vankanta, enda litu Jemenbúar einungis á hana sem tilraun. Við gerð hennar hafði ríkisstjórnin fá gögn og litlar upplýsingar. Til dæmis var ekki til neitt manntal fyrir alþýðulýðveldið. En á mörgum sviðum var 3ja ára áætlunin uppfyllt, m.a. á sviði landbúnaðar, fiskveiða, heilsugæslu og byggingariðnaðar.

Sú fimm ára áætlun sem nú er í gildi, byggir að mestu leyti á niðurstöðum 3ja ára áætlunarinnar og hefur verið rædd og gagnrýnd innan allra eininga iðnaðarins og innan allra fjöldasamtaka alþýðunnar.

Ein mikilvægasta framkvæmdin innan iðnaðarins er að mati stjórnarinnar stækkun sementsverksmiðjunnar í Aden úr 100.000 tonna framleiðslugetu í 250.000 tonna framleiðslugetu. Þannig getur Alþýðulýðveldið Jemen orðið útflytjandi á sementi til annarra landa í nágrenninu og aflað sér dýrmæts gjaldeyris. Sökum þess að Jemen er í dag aðeins fært um að framleiða sjálft 60% þeirra lífsgæða sem það þarfnast, munar um hverja krónu gjaldeyris, sem unnt er að nota til kaupa á nauðsynjum erlendis frá. Langtímamarkmið í Jemen er aukin nýting á ýmsum náttúruauðlindum, svo sem olíu, gasi og kopar.

Alþýðulýðveldið Jemen er fátækt land og þess vegna stendur efnahagsuppbyggingin og fellur með meðvitund alþýðu landsins. Talandi dæmi um hversu mikil hún er, er að u.þ.b. 30% framleiðslu landsins fer fram í sjálfboðavinnu, þ.e. alþýðan stendur af fúsum vilja í frítíma sínum við framleiðsluna til að efla hag landsins, án þess að taka greiðslu fyrir. Fjölmargir Jemenbúar sem vinna erlendis láta hluta launa sinna renna í uppbyggingarsjóð, sem er notaður til að fjármagna framkvæmdir á ýmsum sviðum.

Árásir afturhaldsins gegn Alþýðulýðveldinu Jemen.

Sigur alþýðunnar 1969 þýddi mikinn ósigur fyrir gagnbyltingaröflin. Síðan hafa allar tilraunir þeirra til að vinna skemmdarverk gegn alþýðu alþýðulýðveldisins verið barðar niður með fyllstu hörku. En gagnbyltingarsinnarnir hafa skipulagt sig í Saudi-Arabíu og Norður-Jemen þar sem þeir njóta stuðnings ríkisstjórnanna. En stærsta ógnunin, sem Alþýðulýðveldið Jemen er búin kemur frá Íran. Keisarinn þar, studdur af USA-heimsvaldastefnunni og fullur öfgakenndra stórveldishugmynda, hefur látið skýrt í ljós, að hann þoli engin "róttæk" svæði í þessum heimshluta. Herir íranska afturhaldsins hafa síðan 1973 tekið þátt í tilraunum heimsvaldastefnunnar til að berja á bak aftur frelsisbaráttuna í Dhofar, því héraði Oman sem á landamæri að Jemen. (Sjá nánar grein í Stb. nr. 10, 1974). Þannig tóku 15.000 íranskir hermenn þátt í árás gegn PFLO, frelsissamtökunum í Oman, í tilraun sem heimsvaldalöndin með Breta í fararbroddi gerðu til að skera af samgöngur milli Dhofar og Alþýðulýðveldisins Jeman. Í árásunum felst mikil ógnun við Jemen og ákveðnir aðilar, þ.á.m. Íran, hafa beint hótað árás gegn alþýðulýðveldinu.

Miðað við núverandi ástand er íhlutun heimsvaldaríkjanna í innanríkismál í Jemen ekki útilokaður möguleiki. Það er draumur afturhaldsins að eyða þessari miðstöð byltingarinnar í þessum heimshluta. En alþýða Suður-Jemen er vopnuð og reiðubúin að verja land sitt og hina miklu ávinninga í uppbyggingu þess. En heimsvaldasinnarnir reyna að ráðast gegn alþýðulýðveldinu verða úrslitin á sama veg og í Indókína, Mósambik, Angóla og Guinea-Bissau. Alþýðustríðið er ósigrandi.

-/ÓI



Konan í múhameðstrúarlöndunum er ofurseld gífurlegri kúgun. Falin slæðum og hulin í ýmiskonar dulum læðist hún með veggjum, þá sjaldan sem hún fer út fyrir fjóra veggi heimilisins. "En ef bylting okkar á að vera eitthvað annað en sta fir á blaði, þá verða konurnar líka að koma út í þjóðfélagið og taka þátt í uppbyggingunni," segir Aida Jaffi, leiðtogi Kvennasambands Jemen og meðlimur í æðsta þjóðarráðinu. "Svo þrátt fyrir að enn finnist atvinnuleysi meðal karlmannanna, eru u.þ.b. 50% allra starfa í verksmiðjum unnin af konum. Sem verkakona finnur konan hvers virði hún er - hún framleiðir og tekur þátt í uppbyggingu landsins. Og um leið verður hún meðvituð um vandamál þjóðfélagsins. Það erum við í Kvennasambandinu sem erum tengiliður hinnar almennu konu við þjóðfélagið. Þegar kona kemur til okkar er það kannski til að læra að sauma eða lesa eða skrifa. En fljótlega biður hún um vinnu og hún tekur virkari þátt í pólitísku umræðunum með okkur. Og þegar við hittum hana í bókasafninu við lestur á verkum Leníns og Maós, þá vitum við að hún er tilbúin að taka sinn stað í baráttunni."



Hér hafa verkamenn í Aden safnast saman til að ræða hvernig hægt er að þróa byltinguna áfram. Verkalýðsstéttin er aðeins lítill hluti íbúa Alþýðulýðveldisins Jemen, en fátækir bændur eru næstum 80% íbúanna.

Á þessum fundi var rætt um, hvort það væru verkamenn eða bændur sem standa skyldu í fararbroddi byltingarinnar. "Öreigar heimsins eru byltingarsinnaðasta stéttin," segir Fateh Ismail, aðalritari NLF, úr ræðustólnum. "Ef við viljum ekki nema staðar eftir frelsun landsins og hætta við að byggja þjóðfélag án kúgunar og arðráns, þá verða verkamennirnir að axla sögulegt hlutverk sitt og standa í fararbroddi nú," segir hann og þúsundir verkamanna fagna orðum hans með krepptum hnefa. "En smábændurnir eru bandamenn okkar og án bandalags við þá getum við ekki varið byltinguna og þróað uppbygginguna," segir Abdul Rahman. Hann er meðlimur í verkalýðsfélagi verksmiðjuverkamanna og hann fjallar um um hlutverk verkalýðsfélagsins í því landi þar sem verkamenn eru sínir eigin herrar. "Ennþá er land okkar ekki sósíalistískt, - áður en svo verður, verðum við að byggja upp iðnað og landbúnað sem er fær um að framfæra allri þjóðinni. Og á þessu tímabili sem nú stendur yfir, ný-lýðræðislega tímabilinu, fá borgararnir að leggja fé sitt í verksmiðjur og fyrirtæki. En það erum við verkamennirnir sem ákveðum hvaða verksmiðjur við þörfnumst, hve margir fá þar vinnu og hverjir stjórna fyrirtækjunum. Það eru fagfélögin sem ráða mestu á vinnustöðunum. Öll umsjón með verkamanninum og fjölskyldu hans, starfsþjálfun, menntun hans, heilsugæslu, heimili og vopnaþjálfun er í gegnum verkalýðsfélagið. En umfram allt eru fagfélögin okkar pólitísku tæki. Á fundunum ræðum við hvernig uppbyggingin á að fara fram og hvernig vörnum landsins er háttað. Hverjir eru vinir okkar og hverjir eru óvinir okkar. Hvernig heimsástandið er. Nauðsynina á því að byggja marxískan-lenínískan flokk til að standa í fararbroddi alþýðunnar. Það er í gegnum fagfélögin sem við verkamenn þróumst áfram til að við séum færir um að valda hlutverki okkar."



Ali bin Ahmed, bóndi, segir frá því er smábændurnir ráku lénsherrana burt af óðölum sínum: "Fyrir byltinguna áttu óðalsherrarnir allt jarðnæði. Við unnum á ökrunum frá morgni til kvölds fyrir smánarlaun, sem við tókum út í vörum úr búðum landeigandanna.

Þann 16. október 1970, snemma morguns meðan óðalseigendurnir sváfu enn, fórum við af stað og tókum jarðnæðið frá 6 óðalseigendum og settum þá í fangelsi. Við vorum 500 smábændur með fjölskyldur okkar, fleiri þúsund manns undir vopnum. Við sungum, og með í förinnivoru fjöldi fána. Það var sannkölluð hátíð þann dag."

# Efnahagsaðstoð veitt S-Jemen

Bæði Sovétmenn og Kínverjar veita Alþýðulýðveldinu Jemen efnahagsaðstoð. Sá háttur sem Sovétmenn hafa á sinni aðstoð er sá, að þeir aðstoða Jemenbúa við að koma á fót verksmiðjum, en fá í staðinn 50% afurða þeirra sem verksmiðjan framleiðir. Þannig byggðu þeir upp hluta útgerðarinnar frá Aden. Í borgun fyrir "aðstoðina" verða Jemenbúar að láta þeim í té 50% aflaverðmætanna. Þetta finnst Jemenbúum argasta svínarí, en þeir sætta sig við það í bili, því þeim munar um þann tækjakost sem þeir ná í frá Sovét með þessum hætti. Óskum Sovétmanna um herstöðvar eða aðstöðu fyrir herskip hefur verið algerlega hafnað af Jemenbúum.

Jemenbúar njóta gífurlegrar efnahagsaðstoðar frá Kína, sem látin er í té endurgjaldslaust. Kínverjar hafa byggt járnbrautir milli helstu bæja í Jemen og komið tveim stærstu borgum landsins, Aden og Mukulla, í vegasamband hvor við aðra. Meðan á vegagerð og járnbrautarlagningu hefur staðið, hafa Kínverjar menntað innlenda verkamenn í verkfræði, jarðfræði og sjúkrafræðum. Ennfremur hafa Kínverjar kennt Jemenbúum ýmsar aðferðir við jarðarbætur og byggt lyfjaverksmiðjur. Eitt af stærstu framlögum til 3 ára áætlunarinnar kemur frá Kína. Kínverjar hafa gefið Jemenbúum vefnaðarverksmiðju, þá fyrstu sem reist er í bómullarlandinu Jemen, sem veita mun 2000 manns atvinnu. Þá má nefna, að Kínverjar hfa jafnan að loknum framkvæmdum fært Jemenbúum að gjöf öll tæki sem þeir hafa notað og meðal hluta sem Jemenbúar hfa þannig fengið eru: mikið magn vörubíla, skurðgröfur, ámoksturstæki, jarðborar, kranar og valtarar. Milli 10. og 19. nóvember s.l. heimsótti stór sendinefnd frá Jemen Kína og tókust þar samningar um stóraukna samvinnu á sviði efnahagsmála og tækni. Í forsæti sendinefndarinnar var Robaya Ali, forseti Alþýðulýðveldisins Jemen.

# STÉTTABARÁTTAN Í HEIMINUM

## Kvenfangar pyndaðir í fangelsum herforingjaklíkunnar í Chile

Í kúbanska blaðinu Gramma voru nýlega birtar afhjúpanir á pyntingum böðla herforingjastjórnarinnar í Chile á kvenföngum. Konu að nafni Beatriz Campell var nauðgað fyrir framan þrjú börn sín af nokkrum einkennisklæddum lögreglumönnum og síðar var hún brennimerkt hamri og sigð með rauðglóandi skörungi. Þetta atvik er ekkert eindæmi. Í skýrslu frá Alþjóðasambandi kvenna er skýrt frá því, að vitað sé um a.m.k. 95 konur, sem sé haldið sem "stríðföngum" og hafa verið dæmdar til "sérstakra" pyntinga í fangelsum í Santiago. Skýrsla Alþjóðasambands kvenna gefur ítarlegar lýsingar á þeim dýrslegu pyntingaraðferðum sem fasistaklíkan notar til að pína menn og drepa.

(Hsinhua.)

## Bandarísku friðarsveitirnar reknar ur landi í Perú

Eins og menn rekur minni til, stofnaði bandaríski dýrlingurinn Kennedy fyrirbrigði sem kallað er friðarsveitir, sem áttu að gegna því hlutverki að færa óupplýstum íbúum þriðja heimsins friðarboðskap og verkmenningu í gegnum fórnfúst sjálfboðaliðsstarf í löndum þeirra. Eitthvað hefur ekki tekist sem skyldi við starf friðarsveitanna. Það var opinbert hneyksli í Bandaríkjunum, þegar upp komst, að 95% fjárveitinga til sveitanna runnu í vasa yfirmanna þeirra í Bandaríkjunum og voru notaðar til að auka munað þeirra en ekki til að hjálpa bágstöddum íbúum þriðja heimsins. Í nóvember á síðasta ári gaf ríkisstjórn Perú út skipun til 173 meðlima friðarsveitanna í Perú um að koma sér úr landi samstundis. Þessir friðarsveitarmeðlimir voru í Perú undir því yfirskini að þeir væru að vinna að þróun landbúnaðar, en nýlega var afhjúpað, að CIA notar valdastefnuna. Búist er við að fleiri lönd fylgi fordæmi Perú og geri friðarsveitirnar brottrækar.

(Guardian)

## Pólitisk réttarhöld gegn and-heimsvaldasinnum i Indónesíu

Þegar Súhartí framdi valdarán sitt í Indónesíu og kom á fót fasísku einræði þar, er talið að hann hafi myrt á innan við hálfu ári eina milljón kommúnista og and-heimsvaldasinna. Heilu héröðin voru lögð í rúst og fjöldi bæa þurrkaðir út. Síðan hafa stjórnarandstæðingar verið ofsóttir og pólitísk réttarhöld verið næsta tíð. Nú standa yfir réttarhöld gegn 50 manns, sem tóku þátt í mótmælaaðgerðum, þegar forsætisráðherra Japans kom í opinbera heimsókn til Indónesíu á síðasta ári. Alls voru 850 manns handteknir í mótmælaaðgerðunum og 11 manns voru drepnir af lögreglunni. Hinir ákærðu hafa verið yfirheyrðir stanslaust í 10 mánuði og verið neyddir með pyntingum til að undirrita játningar um landráð. Verjendur hinna ákærðu hafa engan aðgang að opinberum gögnum um yfirheyrslur þeirra og öll vitni, sem borið gætu vitni hinum ákærðu í vil hfa verið fangelsuð. Þrátt fyrir að réttarsalurinn sé umkringdur skrifdrekum til að koma í veg fyrir að réttarhöldunum verði hleypt upp, hafa þúsundir manna tekið þátt í mótmælaaðgerðum til að krefjast þess, að hinir ákærðu verði látnir lausir.

(Peoples News Service, Djakarta; Guardian)

## Ísrael „júlí"-sveitin vopnuð njósnasveit

Í þeim tilgangi að herða enn árásarstefnu sína gegn alþýðu Arabalandanna og til að berja niður baráttu palestínuaraba, eru ísraelsku síonistarnir að byggja upp vopnaða njósnasveit, sem gengur undir nafninu "Júlí-sveitin". Samkvæmt vestrænum fréttastofum sagði talsmaður sveitarinnar, Etan: "Við höfum í hyggju að stofnsetja sveit, sem ætlað er að starfa á landssvæði óvinarins án þess að vera í ísraelskum einkennisbúningum og án nokkurra kennimerkja...sem ekki er ábyrg fyrir hernum eða ríkisstjórninni. Markmið okkar verður að eyða algerlega höfuðstöðvum skæruliða í suðaustur Líbanon og mynda þar einskismannsland." "Við munum drepa hvern einasta mann, sem við finnum þar," bætti hann við. Það er áætlað að taka til skráningar 10.000 manns og Ariel Sharon hershöfðingja hefur verið "boðið" að taka við stjórn sveitarinnar. Sharon staðfesti í viðtali, að forsætisráðherra Ísraels og varnarmálaráðherrann hefðu beðið sig um að snúa aftur til herþjónustu, í því skyni að reyna að bæta hinn slaka baráttuanda, sem ríkjandi er innan hersins. Fréttastofa í Mið-austurlöndum benti á, að "tilgangur stofnunar slíks herafla er augljós, þ.e.a.s. að tengja saman aðgerðir hans og ísraelska hersins gegn andspyrnu Palestínumanna. En slíkar aðgerðir munu ekki gera ríkisstjórn Ísraels kleift að sleppa við ábyrgð á hryðjuverkum þeim, sem hún lætur vinna."

(Peking Review)

# Baráttusaga verkalýðsins

Ritstjórn Stéttabaráttunnar hefur ákveðið að birta í framtíðinni greinar um baráttu íslensks verkalýðs og þá sérstaklega þær öreigasinnuðu hefðir sem Kommúnistaflokkur Íslands hélt á lofti á 4. áratugnum, allt fram til þess tíma að hentistefna sigraði marxísku-lenínísku línuna í flokknum og starfi hans var beint inn á brautir sósíaldemókratismans og þýlyndis við auðvaldið. Skilgetið afkvæmi þessara svika er í dag Alþýðubandalagið sem ljóst og leynt vinnur að skipulagningu auðvaldsframleiðslunnar, að aukinni kúgun og auknu arðráni á verkalýðnum.

Baráttusaga verkalýðsins er ekki kennd í skólum né öðrum áróðursmiðlum borgaranna heldur ríða lygar og falsanir þar öllum húsum, jafnt í augljósum árásum og loddaralegum sjónleikjum svikaranna í Alþýðubandalaginu og "fræðslu"námskeiðum sem uppkeypta ASÍ-forystan stendur fyrir.

Gegn þessu standa svo KSML, sem hafa reist rauða fánann á ný - fána hinnar byltingarsinnuðu öreigastéttar og hafið á loft bestu hefðir verkalýðsins.

Að undanförnu hefur Kommúnistasamtökunum áskotnast bækur og annað útgáfuefni Kommúnistaflokks Íslands. Gefendur eru stuðningsmenn og velunnarar samtakanna úr röðum eldri kommúnista, sem störfuðu í KFÍ. Úr þessum gjöfum og öðrum bókum er til orðinn vísir að bókasafni KSML. Nauðsynlegt er samtökunum, að búa yfir sem bestum bókakosti um málefni verkalýðshreyfingarinnar og kommúnismans á Íslandi og annars staðar. Við skorum á alla velunnara samtakanna úr röðum eldri kommúnista að styðja og efla bókakost samtakanna.

Meðal rita og útgáfuefnis er mikið af blöðum og tímaritum, sem Kommúnistaflokkur Íslands gaf út. Stéttabaráttan mun í þessu blaði og næstu kynna þessi blöð og birta valdar greinar úr þeim.

Fyrsta blaðið sem kynnt er, Nýja Konan, var gefið út af Kvennanefnd KFÍ. Þetta blað hóf göngu sína árið 1931. Það fjallaði um stöðu konunnar í auðvaldsþjóðfélaginu og frelsun hennar undan kúguninni, hina sósíalísku leið. Einnig hafði það að geyma aðsend bréf frá konum.

Úr þessu blaði verða nú birtar tvær greinar. Sú fyrri ber yfirskriftina 8. marz og er nokkurs konar ávarp Kvennanefndarinnar til íslenskra kvenna í tilefni af hinum alþjóðlega baráttudegi sósíalískra kvenna, 8. mars. Er einmitt vel við hæfi að birta þá grein nú, þar sem 8. mars er einmitt skammt undan. Seinni greinin er aðsent bréf til Nýju Konunnar um kjör húsmæðra. Þar er rætt um kúgun konunnar og komið inn á ýmis atriði, sem enn eru í deiglunni, svo sem barnaheimilaskort.

Báðar þessar greinar eru teknar úr marsblaði Nýju Konunnar frá árinu 1933.

# NÝJA KONAN

**Útgefandi: Kvennanefnd K. F. Í.**

1. tbl. Reykjavík, marz 1933. II. árg.

## 8. marz

1910 ákvað þing sósíalistiskra kvenna, er haldið var á Kaupmannahöfn, að hafa 8. marz sem alþjóðlegan baráttudag kvenna. Eftir stríðið hafa kommúnistar einir haldið þessum baráttudegi kvenna við — eins og öðru því bezta, sem til var í hinu gamla II. Internationale.

**„Sósíalisminn er frelsunin fyrir þau tvö, sem mest hafa verið kúguð svo sögur fari af, konuna og verkamanninn“** — reit Bebel, hinn frægi þýzki sósíalistaforingi. Sá flokkur, sem nú heldur einn saman áfram baráttunni fyrir frelsi verkalýðsins, kommúnistaflokkur heimsins, er því eðlilega einnig brautryðjandinn í frelsisbaráttu kvenna um heim allan. Einmitt þar, sem hann fer með völd, hefir í fyrsta skipti í veraldarsögunni verið komið á því skipulagi, er gerir konuna virkilega jafnrétthá karlmanninum að öllu leyti — og gyllir ekki lengur kúgun hennar með svikulum jafnréttisákvæðum borgaralegra laga, eins og enn viðgengst hér.

Í Sovétríkjunum er konan því ekki aðeins jafnrétthá karlmanninum lagalega og atvinnulega, heldur losnar hún og sífelt meir af klafa hins drepandi eldhúsþrældóms, verður sjálfstæður þátttakandi í framleiðslunni, — sjálf meðeigandi framleiðslutækjanna eins og verkamenn Sovétríkjanna — og þar með, ásamt allri hinni vinnandi stétt, drottnandi í mannfélaginu frá því að vera áður kúguðust hinna kúguðu.

Frá Sovétríkjunum er nú líka runnin sterkasta aldan, er boðar frelsi hinna vinnandi kvenna. Hvergi hafa umskiptin orðið eins áberandi og einmitt þar, sem jafnvel konur, er stóðu á miðaldastigi múhameðstrúarþrældóms, hófust upp á menningarstig sósíalisma 20. aldarinnar.

Þessi bylting í lífi kvenþjóðarinnar í Rússlandi verður því glæsilegri í augum kvenfólks í auðvaldslöndunum, sem kjör þess hafa farið svo gífurlega versnandi á sama tíma. Kreppan hefir einmitt aukið kúgun og þjáningar kvenna af verklýðsstétt geysilega. Laun þeirra, sem vinna, hafa verið lækkuð og kjör þeirra, sem þræla heima fyrir, hafa hríðversnað vegna vaxandi atvinnuleysis og neyðar.

Hér á Íslandi er hin skarpasta árás auðvaldsins á kjör vinnandi kvenna í undirbúningi. Ofan á atvinnuleysið og launalækkanirnar á nú að bæta **krónulækkuninni**, geigvænlegustu kauplækkun, sem enn hefir átt sér stað. Ofan á fátæktina, sem verkakonan verður að horfast í augu við daglega, er hún **skamtar börnum sínum brauðið**, á að bæta verstu dýrtíðinni með því að hækka allar vörur geysilega í verði.

Allar konur af alþýðustétt þurfa að **vera samtaka í baráttunni gegn árás** atvinnurekendastéttarinnar á þær, **börn þeirra og menn.**

8. **marz verður að verða voldugur mótmæladagur vinnandi kvenna á Íslandi, gegn launalækkun og atvinnuleysi, gegn dýrtíð og auknum tollum, gegn húsaleiguokrinu og illu húsakynnunum, gegn allri kúgun og neyð, sem þjáir þær, gegn auðvaldsskipulaginu, en samfylkingardagur í brýnustu hagsmunadeilunni og baráttudagur fyrir sigri vinnandi manna og kvenna, fyrir sigri sósíalismans.**

## Kjör húsmæðra

Engar manneskjur hér á Íslandi eiga við eins erfið kjör að búa og fátækar verkamannakonur. Það hefir verið svo frá ómunatíð, að konan hefir verið hálfgerður þræll mannsins.

Þó nokkur bót sé á þessu ráðin nú orðið, er ástandið samt enganveginn viðunandi, til dæmis er sá andi ríkjandi meðal almennings, að ósæmandi sé að konan geri annað en elda mat og líta eftir börnum.

Fátæk verkamannakona er alls ekki frjáls manneskja, hún er neydd til þess að þræla frá morgni til kvölds, eða réttara sagt fram á nætur, því sjaldnast endist dagurinn, og þar við bætist, að vaka yfir börnum á næturna. Þessar konur eiga margar barn á hverju ári, og vaxa þá erfiðleikarnir að öllu leyti, bæði fjárhagslega og með auknum störfum, sem öll lenda á konunni, því hún er bæði: vinnukonan, barnfóstran og húsmóðirin. Frístundir þekkir hún engar, hún getur ekki einu sinni gengið út sér til hressingar, sem þó er nauðsynlegt, til þess að viðhalda heilsunni, hvað þá að hún geti sér til skemmtunar farið út með manni sínum, því þá er enginn til að hugsa um börnin.

Margar af þessum konum búa í þröngum og að öllu leyti slæmum íbúðum, svo slæmum, að þær eru beinlínis heilsuspillandi, sérstaklega fyrir börnin. Mæðurnar mega sem sagt horfa á þau taka í sig allskonar sýkla í þessum pestarbælum, og eru þess ekki megnugar að afstýra því á neinn hátt, ekki einu sinni með því að veita þeim holla og góða fæðu, til þess að þeim aukizt mótstöðuafl. Barnauppeldið, sem ætti að ganga fyrir öllu öðru, verður algjörlega á hakanum. Ekki af því að móðirin vilji ekki gera betur, heldur er hún tilneydd, hún hefir engan tíma til að sinna þeim eins og þarf.

Hún er þeirri stund fegnust, þegar hún getur fengið þeim eitthvað, sem þau þegja við og oft eru þrengslin í íbúðinni þess valdandi, að börnin eru drifin út. En hvað tekur þá við? Aðeins gatan með öllum sínum hættum og óþverra. **Móðirin getur ekki eina stund verið óhrædd um líf og limi barnanna, hún er sífellt milli vonar og ótta, getur alltaf búizt við, að eitthvert barnið verði þá og þegar borið dautt inn til hennar, dæmin eru henni deginum ljósari með það.**

Leikvellir fyrir börn eru hér bæði litlir og að öllu leyti ónógir, hvað þá barnaheimili, en mundi ekki þungum áhyggjum vera létt af fátækum mæðrum, sem enga möguleika hafa til að líta eftir börnunum úti, ef til væru barnaheimili, sem tækju við börnunum strax á morgnana og móðirin gæti verið algjörlega óhrædd um þau, jafnframt létti það af henni líkamlegu erfiði.

Auðvaldsskipulagið er þannig, að afnám þess ætti engum að vera kærkomnara en einmitt verkamannskonunni, því margt af því versta sem í því er, kemur harðast niður á henni.

Atvinnuleysið, með öllu því böli sem því fylgir, er ein afleiðing af þessu vitfirta þjóðskipulagi. Skorturinn, sem atvinnuleysinu er samfara, kemur tilfinnanlegast niður á konunni. Það er hún, sem svöng börnin biðja um mat, sem hún ekki getur veitt þeim.

Og sú bæn sker hana sárara en nokkur getur skilið, sem ekki hefir reynsluna.

Á þessu þarf að ráða bót.

Verkamannakonur! Stöndum allar fast saman og hristum af okkur þrældómsokið.

Burt með kapítalismann, en vinnum að sigri sósíalismans á Íslandi.

**Kona.**

# Þessvegna varð Írland suðupottur Evrópu

Írland tilheyrir þeim löndum Evrópu þar sem stéttabaráttan hefur verið hörðust á síðustu árum og jafnframt verið flóknust. Með því að rekja söguna lítillega fáum við gleggri innsýn inn í hvað er að gerast á Írlandi og hvaða stéttaröfl eru þar að verki.

Nýlendukúgun Englands á Írlandi hófst þegar á miðöldum og varð fullkomnuð á 16. öld. Á þessu tímabili stóð baráttan milli enska lénsfyrirkomulagsins og írska ættarsamfélagsins, sem byggðist á sameignarfyrirkomulagi. Með vexti kapitalismans breyttust valdahlutföllin smám saman.

Á níunda áratug nítjándu aldarinnar og fyrstu árum tuttugustu aldarinnar varð verkalýðshreyfingin að umtalsverðu afli í írskum stjórnmálum. Fjöldi fólks leitaði úr sveitunum til iðnaðarins, aðallega Dublin og Belfast. Félög iðnaðarmanna eiga rætur að rekja til miðrar 19. aldar. Helsti frumkvöðull að stofnun félags ófaglærðra verkamanna var Jim Larkin. En hann stofnaði Irish Transport and General Workers´ Union.

Fyrsti írski stjórnmálaflokkurinn, sem tók tillit til hagsmuna verkamanna var flokkur James Conolly: Irish Socialist Republican Party, sem var stofnaður 1896. Samkvæmt skoðun flokksins var frelsun verkalýðsins undan arðráni einungis möguleg í frjálsu landi, sem væri stjórnað samkvæmt hagsmunum írsku þjóðarinnar, en ekki Stóra-Bretlands.

Conolly taldi ekki til þjóðarinnar stórjarðeigendur og kapitalista, sem voru tengdir Bretlandi, eða þá, sem þurftu stuðning þess til að halda stöðum sínum.

### Klofin borgarastétt

Um aldamótin 1900 var írska borgarastéttin klofin í tvo hluta: þá, sem vildu sameiningu við Bretland (Unionistar), en þeir voru kaupmenn og iðnrekendur í norðurhéruðunum og hins vegar kaupmenn og smákapitalista í Dublin og suðurhlutanum.

Sameiningarmennirnir í norðri fengust aðallega við skipasmíðar og vefnað. Aðalmarkaður þeirra var Stóra-Bretland og því vildu þeir koma á fríverslun milli landanna. Þeir höfðu engan áhuga fyrir að vernda innlendan iðnað fyrir heimamarkað. En það vildu kapitalistarnir í suðurhlutanum gera með tollum og innflutningshöftum. Þetta eru efnahagslegar forsendur Ulster-sameiningarstefnunnar og ástæðan fyrir því, að iðnaðar- og verslunarauðvaldið í norðri var ekki andsnúið Bretum eins og stéttarbræður þeirra í suðurhlutanum.

Með því að sameinast Englandi sáu Ulster-kapitalistarnir kjörið tækifæri til að sundra verkalýðshreyfingunni, en sameinuð var hún sterkasta þjóðfélagsaflið á Írlandi. Sameiningarkapitalistarnir blésu því m.a. í glæður trúarlegra fordóma verkamannanna. Á árunum 1919 og þriðja áratugnum voru skipulagðar ofsóknir skv. öllum kúnstarinnar reglum (pogrom) gegn kaþólikkum í Belfast. Tilgangurinn var sá, að nota sundrunguna til að lækka laun verkamannanna. Þetta bitnaði bæði á kaþólikkum og mótmælendum, en þeir voru allt of sundraðir til að veita viðnám.

Smáiðnrekendur og kaupmenn í suðurhlutanum vildu vernda innanlandsmarkaðinn gegn erlendri samkeppni eins og getið er um hér að framan. Þeir, sem fylgdu John Redmont og flokki hans, Irish Party, héldu að þetta væri hægt að gera með heimastjórn, þ.e. írskri ríkisstjórn, sem væri útnefnd af enska þinginu.

Smákaupmenn og smáiðnrekendur voru þó yfirleitt róttækari. Þeir vildu losa sig undan öllum áhrifum frá breska þinginu og stofna sjálfstætt þing. Þeir vildu vera jafnréttháir Englandi innan enska konungsdæmisins - tvöfalt konungdæmi. Þeir höfðu sína eigin nýlendudrauma. Arthur Griffith, leiðtogi hins þá smáborgaralega Sinn Fein flokks, leit svo á, að sterk og metorðagjörn írsk borgarastétt ætti "að vera fær um að hafa áhrif á framfarir og menningu þjóða, sem skemmra eru á veg komnar og stofna sínar eigin nýlendur." Draumur hans var sem sagt sá, að hin innlenda borgarastétt ætti að vera fullgildur samherji breskrar borgarastéttar í heimsvaldaarðráni hennar á Asíu og Afríku.

Bæði Redmont og Griffith gerðu sér grein fyrir hættunni af verkalýðshreyfingunni. Verkbannið 1913 var tilraun írskra atvinnurekenda til að knésetja verkalýðinn með hjálp enska hersins og lögreglunnar áður en heimastjórnarlögin gengju í gildi og þeir þurftu sjálfir að takast á við verkalýðinn. Í þessu verkbanni myndaðist samborgaraherinn til að verja verkamenn fyrir villimannlegum árásum lögreglunnar. John Conolly leit á hann fyrst og fremst sem þjálfað **herlið til að ráðast gegn öllu kerfi** heimsvaldastefnunnar. Conolly gerði sér grein fyrir, að það sósíalíska samfélag, sem hann barðist fyrir gat ekki orðið veruleiki án þjóðlegrar frelsunar og sjálfstæðs lýðveldis.

### Írlandi skipt í tvo hluta

Á liðnum öldum hafa verið gerðar margar uppreisnartilraunir gegn stjórn Englendinga á Írlandi, en páskauppreisnin 1916 markar tímamót. Í fyrsta skipti báru skipulagðir verkamenn hitann og þungan af uppreisn á Írlandi.

Þó að páskauppreisnin væri fljótlega barin niður, leiddi hún í ljós, að gamalds nýlendukúgun hafði beðið skipbrot. Ensku heimsvaldasinnarnir urðu að finna nýtt ráð til að halda efnahagslegum yfirráðum sínum, og var þá Írlandi skipt, og stofnað sjálfstætt ríki í suðurhlutanum.

Mikil spenna ríkti árin fyrir skiptinguna. Bretar höfðu 50 þús. manna her á Írlandi búinn skriðdrekum og stórskotabyssum. Auk þess höfðu þeir tvær sérþjálfaðar herdeildir. Þegar lögin um "Government of Ireland" gengu í gildi, voru stofnuð tvö aðskilin þing. Annað þingið var í Belfast fyrir greifadæmin sex í norðaustri, en hitt var í Dublin fyrir hinn hluta Írlands (þ.e.a.s. 26 greifadæmi). Nú leit út fyrir, að mótsetningarnar væru leystar, annars vegar á milli Írlands og Bretlands og hins vegar innan írsku borgarastéttarinnar. Átökunum linnti samt ekki. Kaþólikkar voru ofsóttir skipulega í norðurhlutanum, þeir voru reknir frá heimilum sínum og atvinnu. Einnig voru óeirðir í suðurhlutanum. Kaþólikkar flýðu suður, en mótmælendur norður.

Í Dublin hafði Cosgrave myndað ríkisstjórn fríríkisins Írlands 1922. Þeir þjóðfélagshópar, sem hann studdist við, voru bankaeigendur, kaupmenn og stórjarðeigendur, sem voru algerlega háðir Englandi. Aðgerðir ríkisstjórnarinnar einkenndust þar af leiðandi af undirlægjuhætti við Englendinga og harkalegri kúgun á verkalýðsstéttinni. Sjálfstæðið var verkamönnum og bændum enginn afgerandi léttir. Atvinnuleysið var mikið, og launin voru lág. Smábændurnir urðu að greiða milljónir punda upp í jarðaskuldir til ríkisstjórnarinnar. Hún sendi síðan peningana til Englands, þar eð þeir voru bætur til þeirra jarðeigenda, er höfðu verið keyptir burtu af jörðum, sem forfeður þeirra höfðu stolið.

Árið 1926 voru til tvö samtök, sem gátu vegið gegn Cosgrave. Þessi samtök voru Fianna Fail og IRA (írski lýðveldisherinn). Fianna Fail hafði klofnað út úr Sinn Fein flokknum og var stjórnað af de Valera. Flokkurinn túlkaði hagsmuni smáiðnrekendanna. Þeir voru andheimsvaldasinnaðir, að því marki, að þeir vildu vernda innanlands markaðinn fyrir bresku heimsvaldastefnunni. Þeir hétu því að minnka atvinnuleysið og stækka markað bændanna. Auk þess lofuðu þeir að afnema jarðarskuldirnar.

Þó að IRA flokkurinn reyndi, á öðrum og þriðja áratugnum að leiða verkalýðinn jafnt á efnahagslega sem pólitíska sviðinu, varð árangurinn lítill. IRA rak áróður fyrir því í sveitunum, að bændur neituðu að greiða bætur til stórjarðeigendanna, en Fianna Fail naut ávaxtanna af þessari áróðursstarfsemi.

Þegar nýja ríkisstjórnin lýsti yfir afnámi bóta fyrir uppteknar jarðir, svaraði England með refsitollum á

FRH. Á BLS. 7.



Breskir hermenn framkvæma leit á íbúum í Belfast.

